# FRIÐÞJÓFSSAGA,

EPTIR

**ESAÍAS TEGNÉR.**



NORRÆNIR GUNNFÁNAR OG VOPN.

# FRIÐÞJÓFSSAGA,

## NORRÆN SÖGULJÓÐ Í 24 KVÆÐUM,

EPTIR

## ESAÍAS TEGNÈR.

---

**MATTHÍAS JOCHUMSSON**

ÍSLENZKAÐI.

---


ÚTGEFANDI:

EINAR ÞÓRÐARSON.

---

REYKJAVIK.

PRENTUÐ HJÁ EINARI ÞÓRÐARSYNI.

1884.

# Formáls-orð.

—

þessi nýja útgáfa á þýðingunni á Friðþjófssögu er að ýmsu breytt og bœtt frá inni fyrri; meðal annars eru öll kvæðin nú þýdd undir frumháttunum.

Fjarlægð þýðandans frá prentunarstaðnum veldr því, að hann hefir eigi getað annazt sjálfr um prentun og prófarkalestr; en vonazt er til, að menn dœmi vægilega um þann frágang allan.

Reykjavík, í maí 1884.

*Jón Ólafsson.*

## YFIRLIT EFNISINS.

# Æfi-ágrip Tegnérs.

—

Esaías Tegnér er þegar orðinn alkunnur hér á landi, einkum af kvæðinu *Axel*, sem Steingrímur Thorsteinson hefir gefið löndum sínum í þýðingu. Þar fylgir og ágrip af æfisögu höfundarins; verð eg því bæði þess vegna, en einkum rúmsins vegna, fáorður um æfi hans.

Hann fæddist 1782 í þorpinu Kyrkerud á Vermalandi í Svíþjóð; var faðir hans þar vel metinn prestur, en báðir afar hans höfðu verið bændur; var því eðlilegt, að niðji þeirra, Tegnér, unni bændastéttinni, enda fyrirvarð hann sig eigi að kannast við ætt sína, þegar hann sjálfur var orðinn stórmenni. Hann missti tíu vetra föður sinn, og var honum komið til umboðsmanns nokkurs eða tollheimtumanns þar í grennd, svo sem skrifara. Gekk það vel, því pilturinn var næmur og glöggur, störfin óbrotin, en þessi fóstri hans valmenni. Þó þótti hollast, að Esaías hefði eigi bækur til meðferðar, ef hann átti eitthvert athugaverk að vinna. Var það einhverju sinni, að fóstri hans bað hann standa í garðshliði og varna gripum að fara inn í gerðið; gjörði hann svo, en litlu síðar kom fóstri hans þar að, og stóð þá Esaías dyggilega í sömu sporum, og las í bók, en gripunum lofaði hann að vera eins inni sem úti Í öðru sinni hafði hann margt að hugsa, og hellti bleki

í staðinn fyrir skrifsand yfir skjal nokkurt. «Hvaða maður ætli verði úr þér, drengur?» sagði fóstri hans. «Ætla mér takist ekki að verða tollheimtumaður», svaraði hinn. Svo var námfýsi hans mikil, að hann las og lærði nálega allar bækur, sem hann náði í og skildi. Hann orkti þar á ofan um hvert atvik, sem einhver áhrif hafði á hann, og lærði þannig snemma að koma laglega orðum fyrir sig í ljóðum. In fyrsta vísa Tegnérs er um gæsarunga, sem hann heygði í fornmannahaugi, er hann sjálfur hafði grafið upp; hann var þá 10 eða 11 vetra. Vísan er svona:

«Lycklig du,
lille gåsunge nu!
Ingen räf, ingen korp eller kråka
dig mera skall råka»[1].

Um þessar mundir hafði hann lesið Íslendingasögurnar, og sýnir Friðþjófssaga, að hvorki hefir Hómer né nein suðræn fræði getað stolið endurminning þeirra síðar úr huga hans. Að Esaías var settur til mennta, atvikaðist þannig: Einu sinni var hann á ferð heimleiðis með fóstra sínum um kveld undir alstirndum himni. Gamli maðurinn tók þá að útlista guðs dásemdir fyrir honum, en kom þar ekki að tómum kofum, og varð forviða á fróðleik og skarpleik sveinsins. Nokkuru síðar kallar hann á Tegnér og segir: «Þú getur nú ekki lært meira hjá mér, enn

---

1) Gott átt þú,
gæsarungi litli nú!
engi krummi né kráka né refur
klær í þig grefur.

komið er, enda segir mér svo hugur um, að þér muni annað betra ætlað. En þótt svo sé, þá gleymdu aldrei að þakka gjafaranum allra góðra hluta». Síðan fór Tegnér til annars manns, þar sem annar eldri bræðra hans var barnakennari, og hóf nám sitt með dæmafárri ástundan og skerpu; skömmu síðar varð þessi bróðir hans embættismaður, og fór hann þá til hins bróðurins, er var kennari hjá ágætum ríkismanni, er Myhrmann hét, og síðar varð tengdafaðir skáldsins. Hér fékk hann fast hæli upp frá því, unz hann varð útlærður frá háskólanum í Lundi árið 1802.

Árið eptir varð hann háskólakennari, tvítugur að aldri. Því embætti hélt hann, þangað til árið 1824, að hann var kjörinn biskup í Vexiö. Til ársins 1812 kenndi hann listafræði (Æsthetik), en þá varð hann *prófessor* í grísku. Hann þótti ætíð inn ágætasti, fróðlegasti og skemmtilegasti kennari, og mátti segja, að inir fjörugu, ungu Svíar sæu varla fyrir honum sólina; svo miklar mætur höfðu þeir á honum; enda létu honum þessi kennarastörf ágætlega vel, er hann var ið dýrðlegasta skáld, og kunnugri og leiknari í griskum fræðum enn nálega allir aðrir samtíða menn hans á norðurlöndum. Fyrirlestrar hans þóttu jafn-fagrir og fjörugir, sem þeir voru ljósir, og mælska hans og málsnilld verður varla oflofuð, og inar svo nefndu skólaræður (skoltal) Tegnérs eru án efa ið ágætasta, sem nokkurn tíma hefur samið verið samkynja. Ræða sú, er hann flutti 1824 í Lundi, þá er hann kvaddi lærisveina sína þar, þykir einhverjar fegurstar minjar mælsku hans. Er þar yfirlit yfir skáldskap allra höfuð-þjóða og samanburður á norrænum,

austrænum og suðrænum, fornum og nýjum anda og formi, svo fagur og skarpur, að því mun óhætt að fylgja að svo komnu. Á þessu tímabili orti Tegnér flest kvæði sín, t. a. m.: *„Hersöng Skáneyinga“*, kvæðið *„Solen“* og þjóðsönginn *„Svea“*, er gjörðu höfundinn þjóðkunnan; sömuleiðis in þrjú stærri ljóðmæli hans: *„Nattvardsbarnen“*, *„Axel“* og *„Friðþjófssögu“*, ið mesta og frægasta rit hans. Ekkert skáld Svía hefur orðið jafnþjóðlegt sem Tegnér; kemur það bæði af því, að hann velur svo vel yrkisefni sín, og svo hitt, að kvæðin eru jafnmergjuð, sem þau eru fögur, smellin og fimlega ort; hugmyndir hans grípa mann eins og rafleiptur; svo snögglega koma þær; svo berar, hvassar og findnar eru þær.

Eptir að skáldið var orðinn biskup, orti hann að tiltölu minna, bæði sakir kirkjulegra starfa, er hann var árvakur og samvizkusamur embættismaður, og einkum sakir meinlætis þess, er þjáði hann síðara hluta æfi hans, og lagðist þungt á geðsmuni hans, og hratt inum fagra anda úr jafnvægi með þungu hugstríði og stundum fásinnu; þótti því vinum hans, sem ský drægi frá skólu, er afbráði fyrir honum, og orti hann þá enn opt, helzt tækifærisljóð til ástvina sinna, sem fylla stórt bindi; svo mörg eru þau og öll ágæt. Þó fór embættisstjórn hans prýðilega úr hendi; hann las guðfræði af mesta kappi, eptir að hann var orðinn biskup, því hann kvaðst eigi kunna við, að prestar sínir rækju sig í vörðurnar, en embættispróf í þeirri grein hafði hann eigi tekið; hann var og stjórnsamur, og var því sífellt önnum kafinn. Svo víðfrægur var Tegnér orð-

inn, að eitt sinn, er biskupssetur hans brann, komu gjafasamskot handa honum óbeðið rakleiðis sunnan úr Egyptalandi, auk heldur frá öðrum löndum, sem nær liggja. Tegnér þjáðist ákaflega in síðustu æfi-ár sín, þangað til um miðnætti 2. dag nóvembermán. 1846; þá vatt andi skáldsins liðlega af sér hlekkina, og var sem andlitið brosti í dauðanum. Rétt fyrir andlát sitt sagði hann opt, þegar hann sá geisla haustsólarinnar, þessi orð: *„Jag lyfter mina händer upp till Guds berg och hus“*. Það voru in síðustu sólarljóð hans. Bændur báru hann til grafar, og var það jafn-snemma, að kistan var látin síga niður í gröfina, og sólin gekk undir, og þótti Svíum bæði fagurt og sviplegt, er sólin fylgdi skáldi þeirra og hvarf jafnsnemma. Tegnér var vel kvæntur og átti mörg börn, og öll mannvænleg; einn tengdasonur hans, skáldið *Böttiger*, hefir ritað æfisögu hans, undur fagurlega, en *Geijer* samdi dýrðlega minningarræðu eptir hann; líkneski er og steypt úr málmi eptir boði konungs og þjóðar, og stendur í Lundi; en ágætastan varða hefir hann sjálfur reist sér í snilldarljóðum þeim, er æ munu standa «óbrotgjörn í bragar túni». Síðasta kvæði Tegnérs er kveðja til hörpu hans. Brot úr því á íslenzku læt eg enda þessar línur:

Þá er nú mál að hætta' og hvíla sig;
þú harpan, mín! nú vil eg kveðja þig;
minn harmur löngum fögur ljóð þín flýði,
sem forðum raunir Sáls, í lífsins stríði;

þú hresstir margt eitt hjarta betra' enn mitt;
en hættum nú! því samvistin er stytt.

Eg kvað um Friðþjóf, kvað um Svíajörðu,
eg kvað um guð og menn og lönd og stað;
eg naut mín aldrei, nema þá eg kvað —
en áttum skiptu amaveðrin hörðu,
er ýmist gljúpa hjartað þyrnar mörðu
eða lækning gaf því liljublað.
Og loksins finnst mér leika á því vafi,
hvort lífið glatt eða hryggt mig optar hafi.

— — Sú kemur stund, er upp af moldum mínum
með mærri hörpu ungur Bragi rís,
sem tekur við með helgum hróðri sínum,
þars hætta forðum varð mín ljóðadís,
og kveðr um drengskap, hreysti' og hetjuanda
og heilög fósturóðul Norðurlanda.

— — Þú himinborna sál af minni sál!
þú söngdís — hafin yfir stund og tál!
æ farðu vel! þér umfram allt eg unni;
þú endurnærðir mig á lífsins brunni —
þú varst mér allt. — Við dauðans dimma grind
mér dýrðleg enn þín brosir guðdómsmynd.

## 1.

## Friðþjófur og Ingibjörg.

—

Á Hildings garði greru' í lund
tvö gullin blóm um sumarstund,
og friðar nutu' und fóstra höndum;
ei fegra grær á Norðurlöndum.

Og önnur spratt sem eikarteinn,
inn ítri stofn sem falur beinn,
en yfir toppsins hvelfing háa
við himinloptið gnæfir bláa.

En annað spratt upp eins og rós
við upprennandi vorsins ljós,
en sumarþroskinn, sem hún geymir,
hann sefur enn og lífið dreymir.

Því fyrst skal stríðan stormaleik
in sterka þola skógareik,
og hátt á lopt er röðull runninn,
er rósin opnar fagra munninn.

Þau fæddust upp við frið og leik,
og Friðþjóf nefndu menn þá eik,
en munarrósin meginblíða
var mærin Ingibjörg in fríða.

Ef sveininn þann með baugabrú
á björtum degi litir þú,
á brúðarleik í Sjafnar sölum
þú sjá í jarðar þættist dölum.

En dansi þau á mærri mörk
við mánaljós í kring um björk,
þar álfakóng og huldu hvíta
þú hyggja myndir þig að líta.

Hve hróðugt sveinninn hóf upp brún,
er hafði fyrstu numið rún;
hann þóttist taka himin hendi,
og hana Ingibjörgu kenndi.

Að sigla skeið um sílarann
með svanna ungum kætir mann;
hún klappar saman hvítum höndum,
er hleypur fley með seglum þöndum.

Svo hátt hann hvergi hreiður sá,
að hennar vegna' ei þyrði ná,

og örninn, sem býr ofar fjöllum,
hann ungum sínum rændi öllum.

Og vatnaföll þótt væri ströng,
hann vóð með granna silkispöng.
Hve fagurt undir fossi stríðum
að finna skjól í örmum blíðum!

Þá fyrstu jurt, sem blómstur bar,
og berið fyrst, sem þroskað var,
og öxin gyllt af grænum stöngum,
þau gaf hann Ingibjörgu löngum.

En barnið vex, og árin ótt
í ungan mann því breyta skjótt,
er frána kyndir augum elda,
og yngismey fær barminn hvelfda.

Til veiða þá inn vaski gekk,
og voði enginn skelfdi rekk,
því hlífarlaus á björninn bráða
með berum höndum þorði ráða.

Og beint til rammrar glímu gekk
við grimman varg, og sigur fékk,
og feld bar heim. Mun fagur svanni
ei fagna dável komumanni?

Því hetjan geðjast hringagná,
ið hrausta' og fagra saman á,
sem hjálmur bezt að hvelfdu enni
á hraustu fellur afreksmenni.

Í eldaskála opt um kveld
hann undi sér við bjartan eld,
og kvað um glæstar goðahallir,
er gyðjur byggja og tívar snjallir.

«Sem mána-geislum glói sjár,
er gult (hann mælti) Freyju hár;
um Ingibjörg það skýrt má skilja,
þar skreytir guðvef rós og lilja.

Und grænu silki Iðunn á
svo íturvaxinn barm að sjá,
og barm eg veit und líni ljósu
sem leiptri mjöll í kring um rósu.

Hún Frigg á augu björt og blá,
sem blíðan himin til að sjá;
og brár eg veit með blíðu djúpa,
sem bjartan vordag móðu hjúpa.

Og Gerðar vegleg vangarós
er víst eins skær og norðurljós;
eg vanga man, sem mætti skoða
á morgni tveggja sólna roða.

Sem Nönnu hlýja' í hjartarót,
þótt hugsi fáir, veit eg snót. -
Þú, hvíti Ás, af hýrri Nönnu
ert hróðri leyfður víst með sönnu.

Hve feginn biði' eg banastund,
ef blíð mig gréti silkihrund,
sem Baldur grét in blíða Nanna,
og byggði glaður Heljar ranna».

En sjóla dóttir sat að vef,
og söng um ungar hetjur stef;
í dúka óf hún afrekssögur,
og unnir blár og löndin fögur.

Í skildi hafði' hún skíra-gull,
er skein á mjallahvítri ull,
á lopti svifu blóðgir brandar,
en brynjur voru úr silfri þandar.

En ásýnd hver, sem myndar mær,
svo mikla Friðþjófs líking fær,
að öldu-sólar rósin ríka
má roðna við, þótt brosi líka.

En hvar sem Friðþjóf björk að bar,
á börkinn *I* og *F* hann skar;

þær rúnir eins við yndi og gaman
sem ungu hjörtun tengdust saman.

Þá drottinn foldar, dagurinn hár,
af djúpi reis með gullnar brár,
og gumar lífsins glaumi undu,
þau gleyma hvorugt öðru mundu.

Þá birtist móðir Miðgarðs há,
in milda nótt með dökkva brá,
og hljótt var allt um himingeima,
þau hvort um annað mundi dreyma:

«Þú fold, er sérhvert frævist ár
og fögrum lauki skreytir hár,
ó, lof mér blóm þín fríðust flétta
og Friðþjófi þann blómsveig rétta».

«Þú Ránar ver í svölum sal,
er sváslegt þekur perluval,
ó, gef mér perluband þitt bezta
um brúðar minnar háls að festa».

«Þú knappur efst á Óðins stól,
þú auga heimsins, gullna sól,
ef ætti' eg þig, eg óðar vildi
minn ástvin sæma fögrum skildi».

«Þú herjans salar blysið bjart,
inn bleiki máni, njólu skart,
ó gæti eg þig gefið henni
í gullmen um sitt bjarta enni!»

En Hildingur við hetju kvað:
«Þú hyggja' ei skalt á ráðið það,
því ójafnt falla auðnu-gnóttir,
hún Ingibjörg er konungsdóttir.

Og upp til Hárs í herjasal
er hennar rakið ættartal,
en þú ert borinn bónda einum,
og bezt er hóf í öllum greinum».

En kappinn hló: «Úr Heljar sal
þá heimti eg mitt ættartal,
því bersa-kóng eg bana seldi,
og ber hans tign í loðnum feldi».

«Ei maður frjáls má hopa' á hæl,
en heiminn má hann kalla þræl;
sér nornir snúa kunna kaldar,
og konungsdjásni vonin faldar».

«Oss krapt sinn veitti Þrumu-þór
og því er hreystin ættarstór,

hann kýs ei ætt, hann vegur verðið,
og vænstan biðil tel eg sverðið».

«Um brúði þá eg berjast skal,
þótt banni Þór með reiddan fal.
Því lif þú heil, mín hvíta lilja,
og heiptir þeim, sem vill oss skilja!»

---

## II.

## Beli og Þorsteinn Víkingsson.

—

Á sverð sitt hallast Beli í háum sal,
við hlið hans Þorsteinn Víkingssonur, bóndaval,
inn gamli hilmis vinur, nær hundrað ára,
með hjörvaspor á enni og fannir hára.

Þeir stóðu þar, sem hörgar á hárri fold,
er hrynja fyr en varir að lágri mold,
en merktar eru' á hvelfingar ragna rúnir,
og ritaðar með fornsögum veggjabrúnir.

«Nú dimmir ótt að kveldi», kvað dögling ör,
«nú deyfist Bela mjöður, en þyngist hjör,
og líta tek eg glapsýnn á lífshag fleygan,
en ljóma slær af Valhöll; eg get mig feigan.

Þá sonu mína' og þinn son eg sækja bið;
þeir sveinar skyldu fylgjast, sem jafnan við;
og holl ráð vil eg gefa þeim örnum ungu
fyr orðin eru stirðnuð með dáins tungu».

Í höllu koma sveinarnir horsku þá,
og Helgi þeirra fremstur með dökkva brá,
með seiðmönnum við blótstalla bezt hann undi,
með blóði stokkna hönd kom úr fórnarlundi.

Að baki hans stóð Hálfdan, einn haukfránn sveinn,
og harla fríður sýnum, en þroskaseinn,
og gamanleika sýndist hann gyrtur hjörvi,
sem gullhærð var hann snót búin hermanns gjörvi.

Friðþjófur gekk síðast í feldi blá,
en fullu höfði bræðrunum meiri' að sjá;
hann stóð á milli beggja sem deili dagur
að dimma nótt og morgun, svo þroskafagur.

«Þið bræður», mælti hilmir, «nú sezt mín sól;
með samlyndinu festið vorn konungsstól,
því samlyndið er hjaltið, sem haldið gefur
í hjörvi þeim, sem garpurinn mundu vefur.

Á verði standi styrkur við storðar dyr,
en staðfastur sé friður að innan kyr,
því sverðið heitir *verja* í varnarstöðu,
og valinn lás er skjöldurinn bóndans hlöðu.

Að kúga sjálfs sín hauður er heimska smáð,
í hendi sér ber alþýðan kóngsins ráð,

sjá, bjarkarkrónan visnar, ef vantar merginn,
og viðarstofninn þornar við kalin bergin.

Á fjórum stólpum hvílir öll himins voð,
en hásætið á einum, á laga stoð;
ef rofin eru griðin, er refsing nærri,
því réttvísin er þjóðheill og kóngstign hærri.

Í hofum búa goð, mun það, Helgi, vel,
en hvergi þó sem snígill í luktri skel;
svo vítt sem ljómar röðull og raddir fljúga
og reikað fær vor hugur, þeir Æsir búa.

Opt bregðást mönnum vilspár að valaseið,
og véla kunna rúnir á fornum meið,
en hjarta, son minn, gott, þó að hafni galdri,
er Háva rúnum stafað, er bregðast aldri.

Þú, Helgi, ver ei stirður, en statt þó fast;
í styr er sverðið þýðasta hárbeittast,
og mildi prýðir skjöldung, sem skildi lilja;
er skin og dögg ei frjórri en vetrarkylja?

Inn vinarlausi halur, þótt hraustur sé,
hann hlýtur skjótt að visna, sem barrlaust tré,
en vinsæll maður blómgast, sem björk í lundi,
er brosir móti sólu hjá ránarsundi.

Stær þig ei af ættum né hreyk þér hátt,
ei hæfir þér sá bogi, sem valda' ei mátt,
og leita þér ei frægðar í fornum gröfum,
en farveg ryð þér sjálfur, sem röst í höfum.

Glaðlynt skap opt, Hálfdan, hjá horskum finnst,
en hvergi sæmir léttúð, og kóngi minnst;
inn sætasta mjöð skal með humli herða,
og haf þú rögg til leika, en stál til sverða.

Um of finnst enginn hygginn, þótt horskur sé,
en heimskan fellir margan á bæði kné,
að ósnotrum er hlegið, en halur vitur
fær hljóð og áheyrn dómenda, hvar sem situr.

Til vinar liggur, Hálfdan, æ brautin bein,
þótt búi hann í fjarska, og leiðin hrein,
en löng er leið til fjandmanns, þó beint hann búi,
við brautu; manni heiptugum enginn trúi.

Æ valinn mann að trúnaði tak þú þér;
ið tóma hús er opið, en fullt læst er;
kjós einn vin, um marga þú ei skalt strita,
því alþjóð veit, Hálfdan, ef þrír menn vita».

Þá kom upp hann Þorsteinn, og þannig kvað:
«Ó þengill, ríð ei einn heim í Sigtýs stað;

svo bróðurlega skiptum við skapakjörum,
að skyldast er við saman af heimi förum.

En heyr, minn son, hvað aldurinn innrætti mèr
af arðheillunum fornu, þau gef eg þér.
Á ættarkumblum una sér Óðins hrafnar,
en orðspekin á gamalli tungu dafnar.

Virð fremst í heimi regin, né gjör þeim gegn,
allt gott og illt er frá þeim, sem ljós og regn,
þau sjá í gegn um huldasta hyggjuskotið,
opt heil ár eru gjöld fyrir stundarbrotið.

Fylg konungi, sem land hans er langt og breitt;
mörg lýsa augu nóttu, en degi eitt;
sér uni vel inn hái, þó einn sé hæstur;
auk eggjar þarf sér fetils hver brandur glæstur.

Að frækleikur sé góður, þú fullvel minnst,
en fánýtur er styrkur, ef vit ei finnst;
fyrir einum fellur björninn inn afarsterki,
og ofríki og svik fyrir laga merki.

Inn drembna margur hatar, en hræðist fár,
og hrösun nærri metnaði jafnan stár;
sá hreykinn fyrri drambaði, húsgang treður,
því hlýtt ár ræður gróðri, en auðnu veður.

Leyf þú dag að kveldi, þá sól er sezt,
sopið öl, og ráð þegar gagn þess sézt;
svo mörgu treysta hálfþroska höldasynir;
í hjaldri reynast sverð, en í þrautum vinir.

Næturís og vorsnjó þú varast átt,
við vondan orm og knésetta snót eig fátt,
því sköpuð voru sprundum á hveli hjörtu,
og hverflynd eru brjóst sum in fagurbjörtu.

Deyr fé, deyja frændur, og þú sem þeir,
en þó er eitt, ó son minn, sem aldrei deyr,
dómurinn um hvern dauðan, og því tem þetta:
það, sem gott er, stunda og gjör ið rétta!»

Svo réðu aldnir holl ráð í hilmis sal;
í Hávamálum finnst enn það sagna val,
og enn þá lifa orð inna ítru ljóða,
og óma þungt frá fornkumblum norðurþjóða.

Þá hjöluðu þeir lengi mörg hjartnæm orð
um hvor annars trúleik um sæ og storð,
hve bróðurlega ávalt við böl og gaman
þeir bundu saman hendur og fylgdust saman.

«Við baki hlífðum baki, og hvar sem köld
oss hitta vildi nornin, hún kom í skjöld;

en vænst er oss nú öldnum í Valhöll snúa,
en víst skal andi feðra hjá niðjum búa».

Og margt talaði fylkir um Friðþjófs móð,
um frægð og þrek, sem meir er en kóngablóð;
og margt talaði Þorsteinn um þróttinn forna
og þjóðkonunga norræna, goðum borna.

«Þér fylgjast skuluð trúlega allir æ,
þá yfirmann ei finnið um land né sæ;
sé konungstign af trúlyndum krapti bundin,
má kalla þar sé stálrönd um gullskjöld undin».

«Ó heilsið Ingibjörgu með hæversk hót,
í hlè vex blómi kvenna, það sæmir snót;
ó verndið hana', og látið ei storminn stríða
á styrjarhjálm sinn festa þá lilju blíða»,

«Á þér, ó Helgi, hvílir vor hyggjan mörg,
vit, héðan af þín dóttir er Ingibjörg.
En mundu vel, að harðúð inn horska grætir,
en hógværð jafnan, sonur, inn góða bætir».

«Og verpið okkur, synir, tvo hauga há
sinn hvorumegin fjarðar við unni blá,
því skemmtun mun það framgengnum okkar öndum,
er erfiljóð hún flytur að báðum ströndum».

«Þá máninn silfrar fjöllin og sævarhlein,
og sumardöggin fellur á bautastein,
það hlægja skal oss, Þorsteinn, frá haugi háum
að hjala' um fornar stundir of mari bláum».

«Nú heilir, synir allir, og héðan brott!
Til herjaföður skunda er okkur gott,
sem þreyttri á að enda við ægis-flóðin.
En ykkur fylgi Njörður og Þór og Óðinn».

## III.

## Friðþjófur erfir föður sinn.

—

Heygður svo hildingur var, en hinsvegar fjarðarins Þorsteinn;
lýðfrægir lofðungar svo í lífinu mælt höfðu fyrir;
beggja þar bunguðust kumbl, sem brjóst tvö, sem aðskilur dauðinn.
Helgi og Hálfdan að erfð nú hlutu með atkvæði lýðsins
fjárhlut og forræði lands, en Friðþjófur einn saman hirti
föður síns friðsælan arf, á Framnesi tók hann við búi;
mörg þar með hlunnindi hlaut, og heimaland þrjár mílur fullar.
Þrem megin hálsar og holt, en hafið á fjórðu hlið girti;
efst uppi hóll hver og hæð var hulið af laufsælum björkum,
sáðlönd þar milli sem mar í mannháum gullöldum flutu;
háfell þar yfir með hlíð í heiðbjörtum spegluðust vötnum
innan um skrúðvaxinn skóg, þar skálmuðu stórhyrndir elgir,
drambandi dimmviðum í og drekkandi blátærar lindir;
sumstaðar sefengi græn í sundum og dölum með hjarðir
bjúghyrndra kúa beit með búsælleg, stálmafull júfur.

En líkt og vorþoka þýð sér þyrlar, af andvara borin
hér og hvar himins um hvolf með hvítleitum rákum og dílum,
kvísluðu' um hæðir og hól sér hópar af mjallhvítum sauðum.
Herfákar tveim sinnum tólf að tölu, sem fjötraðir vindar,
stóðu við troðfullan stall, og stríðelfdir gneggjuðu' af fjöri;
gljáði' á in glóðrauðu föx, en gall við í járnvörðum hófum.
Skálinn var einhýsi eitt, og allur af kjarnfuru gjörður;
fleiri en fimm hundruð stór með Friðþjófi drengir þar gátu
drukkið í senn inn munntama mjöð með mæring að jólum.
Inn gekk um endlangan sal eitt eikarborð mikið og fagurt;
innst við það öndvegið stóð, en Æsir tveir súlurnar voru.
Ógnþrunginn Óðinn þar stóð, en ársæll með röðul á hjálmi
hinsvegar horfði við Freyr; þar hafði ei alls fyrir löngu
bragningur bjarnhéðni á — en biksvört var húðin með skoltum
grimmum og gínöndum mjög, en glitrandi klærnar úr silfri —
sem gestrisnin gleðinni hjá með góðvinum Þorsteinn átt sæti.
Margsinnis mæringur þar á meðan að tungl óð í skýjum
skemmta nam sitjandi sjöt með sögum og kynlegum dæmum

Bjarmalandsferð sinni frá og Balagarðssíðu og Gandvík.
Hljóð sat þá hlýðandi drótt, og hlustir við ræður hans lagði,
býfluga líkt sem við blóm, en Braga þar hugði hver garpur
sitja með silfurhvítt skegg og sagnfáðar rúnir á tungu
Mímis frá lífsælli lind, en lifandi speki' er hann sjálfur.
Eldur á arninum brann þar ávalt á hálmstráðu gólfi;
rúmgóðu salsrjáfri á um reykháfa niður í skálann
blíðvinir blásölum frá, brosfögru stjörnurnar, horfðu.
Hjálmar og brynjur um höll þar héngu í röð eptir veggjum,
styrjar-skrúð stálneglt og fáð, en stundum bar leiptur af sverði,
hrapanda haustatjörnu líkt, en hjálmum og gunnlogum betur
skinu þó skildir í sal, eins skærir sem sól eða máni;
svo þegar mey skenkti mjöð og mæringum dýrshornin rétti,
roðnaði ristill, en skjótt þá roðnaði einnig í skildi
hinsvegar-mynd snótar hýr. Það höfðu sér menn opt að gamni.
Skorti þar föng ei né fé, því fullar af gnægtum og auði
kornhlöður, kjallarar, búr með kistum og byrðum þar voru.
Gripir og gersemafjöld úr gulli og smíðuðu silfri
var og þar vandlega geymt, í víking með herskildi fengið.
Þó voru kjörgripir þrír, er þóttu þar gersema beztir.

Fremstur var heinþynntur hjör, er höfðu þeir langfeðgar borið,
ógnþrungið eldþrumujóð, sem *Angurvaðill* var nefndur,
austur í Ásheimi gjör (svo ætluðu flestir) af dvergum.
Björn átti blátönn hann fyrst, en Björn missti lífið og skjóma
suður við Græningjasund, er sótti hann Vífill inn sterki.
Vífils son Víkingur hét, inn vaskasti þegar í æsku.
Öðlingur afgamall bjó á Ullarakri þær mundir,
dáfríða dóttur hann gat, er dögglingur hugástum unni.
Hilmi þann heimsóttan lét einn hamramur, kafloðinn jötunn,
máttkari' og tröllslegri' en menn, úr myrkviðri stökk hann til byggða,
skoraði hilding á hólm, eða heimti sér land hans og dóttur.
Þar var og enginn af þjóð, er þyrði að berjast við tröllið —
járn beit ei jötuninn á, og Járnhaus hann fyrir því nefndist.
Víkingur varð til þess einn, er vetur hann taldi sér fimmtán,
elfdur á áræði og þrek, og Angurvaðli hann treysti.
Járnhaus í herðar hann klauf í höggi, og leysti svo meyna.
Þar eptir Þorsteinn fékk hjör, en Þorstein nú Friðþjófur erfði.
Logaði eldur úr egg, er ógnþunnum brugðið var hjörvi;

hjöltin með gullspöngum greypt, en gjörninga-rúnir á brandi,
kynlegar enginn þær kenndi, kenndar þó voru við sólargættir,
þar áanna ætt með Ásum í fyrndinni bjuggu.
Fölvir á friðsælli tíð þeir feiknstafir leyndu sér jafnan,
en þegar hvattur var her í hildarleik, jafnan þeir brunnu
dreyrgir, sem hnarreistur haus á hana, sem att er og fallinn
lá hver, sem helrúnir þær um hjörþrumu-nótt kom á auga.
Frægur því fjörsvafnir var, og fremstur um Norðurlönd talinn.
Armhringur ágætur var þar annar af kjörgripum beztur,
Völundur smíða sem vann — þann Vúlkanus Suðurlönd kalla —
þrjár merkur vegnar sá vóg af vandlega hreinsuðu gulli.
Sigtíva salirnir tólf þar sáust á hringi þeim greyptir,
það eru mánaðarmörk, í mannheimum sólarhús kölluð;
Álfheimar fyrst, þar sem Freyr á fagran sér bústað, og sólin
hefur upp blikandi braut, er byrjar að hækka við jólin.
Sökkvabekk sáu menn þá, með Sögu hvar Alfaðir drekkur
gljáanda gullhorni af — það gullhorn er sólroðinn ægir,
vonhýrum vormorgni á, en vorið er blómfögur saga,
rituð í rímanna stað með rósum á daggfrjóu engi.
Baldur sat öndvegi í, sem eygló um hásumardaga,
gjöful á gullfagran auð og gæzkunnar lifandi ímynd,
því hún er lifandi ljós, en lygin og illskan er myrkur.
Lýist á loptferli sól, og líka fær stundum ið góða

svima á hrynjanda hæð, og hnígur þá hvortveggja dapurt
niður til bölheims; á bál er Baldur inn góði þá lagður.
Glitni, inn sátthelga sal, menn sáu, með vogir í hendi
fríður þar Forseti býr, og friðsæll á haustþingum dæmir.
Mörg var þar enn fögur mynd, er málaði baráttu og þrautir
ljóssins á loptvegabraut, og ljóssins í mannanna hjörtum,
allt gjört af meistara mund, en miðjan sem króna skreytti
baughringinn blóðrauður steinn, sem blíðröðull lopthringinn krýnir.
Arfgengan átt höfðu hring þeir áttungar, langafar Friðþjófs
í móðurætt, vegleg því var frá Völundi þjóðhaga komin.
Hringurinn hvarf þó um sinn, er hafði þar víkingur komið,
sóknrammur Sóti, sem hét, og síðan ei alllengi fannst hann.
Loks kemur saga með sjöt, að Sóti á Bretlandi vestur
hafi sig kvikan í haug með herfang og langskipi grafið,
dvelji þó dauður ei kyr, og draugur sé rammur og illur.
Býr sig þá Þorsteinn á braut með Bela á drekanum góða;
greiðist þeim fullvel sú ferð um fossandi mjallhvítar unnir,
finna loks háreistan haug, sem höll eða musteri gjörvan
úr grjóti og torfi, og glöggt um gluggsmugu litla þeir sáu
víkingaskipið hvar var, sem vandlegast búið að reiða;
líta svo lyptingu í, hvar ljósgráum eldstakki búinn
draugurinn dólgslegur sat, og dreyrstokkinn gunnþvara fáði,

sem þó ei hreinsaðist hót, og hér og þar ránsfé í dyngjum
glóði með gersemafjöld, en gullhringinn bar hann á hendi.
«Bezt mun», kvað Beli þá hljótt, «að báðir við göngum í
haugin,
og eigum við eldvofu leik», en óðara svaraði Þorsteinn:
«Einn í mót einum er lög, og einn skal eg ráðast mót
fjanda».
Deildu þeir drjúgum um hríð, hver dólginn á fyr skyldi
ráða;
loksins tók hilmir upp hjálm, og hlutum í varpaði
tveimur;
hlutur kom Þorsteins upp þá, og þekktist á stjarnbjartri
nóttu.
Hratt hann með spjóti upp hurð á haugnum, og réð síð-
an niður.
Fréttu menn síðan hvað hann í helmyrkum bar fyrir
ranni,
fölur við feiknstafi þá ei framar neinn dirfðist að spyrja.
Fyrst heyra ræsir vann raul, sem rymdi við forneskjuþula,
þá heyrðist glymjandi gnýr, sem gyllu við stálhertir
brandar,
þá fylgdi ódæma-org, og eptir það steinshljóð, og Þor-
steinn
bleikur og trylltur út brauzt, því barizt hann hafði við
dauðann.
Hringinn á hendi bar þó. «Sá hringur er dýrkeytur
orðinn,
því aldrigi fyrri á fold eg fölnaði' af ótta», hann mælti.

Draupnir var dýrgripaval, og dýrstur um Norðurlönd tal-inn.
Drekinn var *Elliði* enn, er áttan þeir langfeðgar höfðu.
Seginn það atburður er, að eitt sinn er Víkingur sigldi
heimleiðis hernaði úr, nær hauðri því sjálfur hann stýrði,
sá hann hvar fleki einn flaut um fjörðinn, og menn þar á standa.
Garplegur gumi sá var, og glaðlega breytinn á svipinn,
líðandi lagar um svið, sem leiki sér alda við sólskin;
Bláleita skikkju hann bar, og belti með sæliljum gullnum,
bringu hans breiddist um skegg, sem brimsjór, en hárið var sægrænt.
Víkingur bregður við brátt, og bjargar þeim nauðstadda manni,
leiðir úr hafsvolki heim, og hjúkrar og vermir og mettar;
gistingu gesti loks bauð, en glottandi svarar hann bónda:
«Heim vil eg héðan í kvöld, þótt hundrað sé vegurinn rastir;
víst er þitt vinsamlegt boð, og vel fer þér; gjarnan eg skyldi
gefa til menja þér gjöf, en góss mitt er fólgið í sænum;
má vera, á morgun við strönd þú menjagrip sjáir þó lít-inn».
Að morgni stóð höldur við hlé, og halda sá inn eptir firði
dreka með gapanda gin, sem gamm meður stormþanda vængi;
enginn sást maður þar á, og enginn við stjórn sat á fleyi,
liðugt smó leiðina samt um launsker og grynninga-voða,

andar sem á væru gnoð, en óðara en bar það að landi
sjálfkrafa lægðu sig segl, og sökktu sér akker til grunna.
Forviða Víkingur varð, en vogurinn gall við og mælti:
«Ægir, sem bjargir þú bauðst, að bjarglaunum sendir þér drekann».
Forkunnar-fögur var gjöf, ei feld voru saman að vanda
eikiborð undin á gnoð, því öll voru samskeyti gróin;
leit út sem dreki á lög, og langt upp úr framstafni teygðist
höfuð með grimmúðugt gin, og gullbúinn allur var svírinn;
borð voru blásteind á skeið; úr bakstafni hringlaginn sporður
silfurhreistraður sást of svalkaldar unnir sér lypta;
blökk voru seglin og brydd með blóðrauðu; þanda með vængi
flugdrekinn flaug á við storm, en fálkinn varð drjúgum á eptir.
Þar sem lá ferðbúið fley, og fullskipað vígsnörum drengjum,
var eins og víggirt höll eða víkingaborg flyti' á sjónum.
Drekinn var dýrgripaval, og dýrstur um Norðurlönd talinn.
Gripina Friðþjófur fékk í föðurarf; ódæma-mikil
auk þess hann auðæfi hlaut, svo auðsælli maður fannst hvergi,
borinn ef buðlung ei var, því bóndi við gram má ei jafnast.
Konungs son kappinn ei var, en konungur var hann að skapi,

vitur og vinsæll og ör, svo víða hans ágæti spurðist.
Fylgdu' honum fullhugar tólf, er fylgt höfðu Þorsteini lengi,
gráir með eggbitin ör, í orrustum reyndir að hreysti.
Yztur á öndvegisbekk með öldruðum gráserkjum byggði
fríður og fráneygur sveinn, sem fífill hjá skrælnuðu laufi;
fullhuginn frækni hét Björn, og Friðþjófi jafn var að aldri,
rjóður sem barn, en í raun roskinn, og gamall að forsjá;
upp hann með Friðþjófi ólst, í æsku þeir vöktu sér dreyra,
festandi fóstbræðralag, sem frægur er Norðmanna siður;
hver þeirra hefna' annars hét, og hver annan verja til dauðans.
Búið var erfi með öld, og alskipuð gestum var höllin;
á miðjum bekk Friðþjóður frækn síns föður með tárugu auga
minntist að mæringasið, og málsnjallra hlustaði' á greppa
drynjandi dróttkveðin stef, er drápu þeir fluttu' eptir Þorstein;
síðan í föður síns sess hann settist að lögum í milli
Óðins og ársældar-goðs, þar Ása-Þór situr í Valhöll.

---

## IV.

## Friðþjófur biður Ingibjargar.

—

Nú glymur bragur í bjartri höll
og bragninginn lofa skáldin snjöll,
en frækinn gleður
ei Friðþjóf drápan, er skáldið kveður.

Og vorið kemur og grænkar grund;
nú geysa drekar um fjörð og sund;
en mæring ungur
um markir reikar svo hyggjuþungur.

Því skammt var liðið frá ljúfri stund,
er lofðungur Hálfdan hans sótti fund,
og Helgi byrstur;
þeir höfðu með sér dáfríða systur.

Við hlið hans sat aðra hýrleit snót,
og hendur þau tengdu með ástarhót;
á svanna skærar
hann sjónir starði, svo munarkærar.

Af hljóði þau minntust á horfna stund,
er hló þeim bernskunnar vorsæla grund,
og marga mundu
þau munarrós, frá því saman undu.

Hún bar honum kveðju frá bjarkasal
og barnanna tré, sem nafnið fal,
og bautasteinum,
þar björkin vex yfir mærings beinum.

«Við hirðina búa eg bót ei finn,
sem barn er hann Hálfdan, en grimmur hinn;
þeir öðlingssynir
eru elskir að lofgjörð og bænavinir.

Við hirð þá er enginn, sem harm segi' eg minn
(hún hljóðlega mælti', en roðnaði kinn);
í konungasölum
er kaldara miklu, enn Hildings dölum.

Og dúfurnar, áður sem undu sér þar,
þær allar á burtu' rak haukurinn snar;
tvær saman sitja
í sorgum þar enn; eg læt aðra þín vitja.

Því dúfan mun fljúga til fundar við vin,
og fornvinar sakna, ef eptir er hin;

um vængina vefðu,
og vinkonu málrúnir fáeinar gefðu».

Svo ræddu þau dag þann og hjöluðu hljótt
og hvískruðu drjúgum, unz leið að nótt,
sem hljóðskraf hjali
inn hlýi vorblær um laufga dali.

En horfið er burtu ið fríða fljóð,
og Friðþjófur tregar; ið unga blóð
til vilja segir;
af von og kvíða hann stynur og þegir.

Og sorgarrúnir hann sendir snót
með svásri dúfu', er beið ei hót,
en ei til baka
í annað sinn kom hún frá þýðum maka.

«Hví er svo hnípinn inn ungi örn?»
með undran stórri svo mælti Björn,
«er bringan brotin?
er beittum fleini vængurinn skotinn?

Hvað girnist þú? er hér ei gæði stór
af gómsætu fleski' og styrkum bjór,
og skálda-skvaldri,
er skemmta má oss að gamalsaldri?

Og reiðskjótann fýsir að fljúga' yfir láð
og farið er haukinn að langa' í bráð,
en Friðþjófur reikar
um foldu hljóður með kinnar bleikar.

Og Elliði hefur ei yndi né ró,
og akkerisstrengjum vill rykkja' úr sjó;
þú fleyið fríða!
hann Friðþjófur vill nú ei lengur stríða.

En áður enn heima eg andast úr sótt,
sem Óðinn eg geiri mig risti skjótt,
og efa eigi,
að Hildur oss fagni á heljarvegi».

Friðþjófur bjóst þá og skundar á skeið,
og skjótur siglir hann beina leið
of fjörðinn þveran;
við Belasyni til fundar fer hann.

Við Belahaug hitti' hann bræður og þjóð,
með bændum þar mæltu þeir lögskil góð;
en Friðþjófur ræðir,
svo duna við röddu hans dalir og hæðir:

«Þið konungar! sjáið, eg kominn er hér,
og köngsdóttur bið eg til handa mér;

því synja ráði
vart mundi Beli, ef væri' hann á láði.

Við tvö saman fæddumst upp Hildingi hjá,
sem hríslur á rót einni vorum við þá,
en yfir síðan
toppana Freyja batt tryggðvef blíðan.

Minn faðir ei jöfurs né jarls bar nafn,
en jafnan hann lofa mun kvæðanna safn;
hans afreksverkin
vitna nú rúnir og vegsummerkin.

Þótt vinna eg treysti mér veldi' og lönd,
eg vera kýs heldur á feðranna strönd,
og þess vil eg sverja
svo konungborinn sem kotung verja.

Og Beli í hauginum heyra má
á hvert vort orð; með Friðþjófi sá
nú bræður biður:
gætið þér vel þess, er gegnir yður!»

En Helgi þá svarar og styggur upp stóð:
«Ei stoðar að mægjast við kotungablóð,
né bónda slíkum
eg gef þá, er samir gylfa ríkum.

Þú vinna mátt ríki og fjár afla frjáls,
þú fífla mátt konur og stýfa hvern háls,
en ofurkappi
in ásborna verður ei þínu' að happi.

Til landvarnar ríkinu' ei þörf er á þér;
eg það annast sjálfur, en viljir þú mér
fylgja, þig fel eg
húskörlum vorum og sess með þeim sel eg».

«Það seint hygg eg verði», þá svaraði hinn,
«því sjálfræði ann eg, sem faðir minn.
Að öðling reiðum
þér, Angurvaðill! nú bregð úr skeiðum».

Þá geislaði sólin á gullbúinn hjör,
svo glóandi blika við rúnir á dör;
«á Angurvaðli
má sjá», kvað hetjan, «að hann er af aðli.

Og væri ei haugurinn helgaður frið,
þú hilmir inn svarti! ei fá mundir grið;
þó skaltu eigi
í annað sinn brandi þeim verða á vegi».

Og Helga skjöld gylltan, er hékk á meið,
í helminga tvo hann með sverðinu sneið;

sundraðist baugur,
en buldi við háreistur Belahaugur.

«Vel tókst þér, hjör minn! til hvíldar þig legg,
og hylji sig friðböndum rúnir og egg;
heim skal nú halda
og drekanum beita' yfir djúpið kalda».

## V.

## Hringur konungur.

—

Og Hringur hratt borðum og horskur upp stóð,
en hirð með skvaldur
þá reis upp og veitti ræsi hljóð;
með réttu þjóð
þeim milding líkti við Mími og Baldur.

Hans ríki var goða líkast lund,
í ljósum viði,
þars vopn ei glymja við vigrafund,
en vorsæl grund
mót sólu glóir í síblíðum friði.

Og dómgyðjan ein var með drottni og þjóð
um dæmistólinn,
og friðurinn skattaði frjósama slóð;
sem fræningsglóð
ljómuðu akrar, er lýsti þá sólin.

Og hundruðum saman in hlýrroðnu flaust

með háum faldi
úr siglingum komu hvert sumar og haust
of sílanaust
með auðkeyptu auðlegðarvaldi.

Og friðurinn dafnaði frelsinu hjá;
þau fýsti' ei skilja;
og þjóð sína elskaði þengill sá,
og þingum á
með einurð hver innti sinn vilja.

Hafði nú þrjátigi vetra við völd
sá vísi setið,
svo hrygg af hans fundi gekk aldrigi öld,
og æ hvert kvöld
í bænum þess bragnings var getið.

Og Hringur hratt borðum og horskur upp stóð,
en hirð að bragði
stórvitrum veitti stilli hljóð;
hann stundi' af móð,
og málsnjallur mál hóf og sagði:

«Vor drottning situr í Fólkvang fríð
við fagurt yndi,
en hér á hún leiði, þars blómin blíð
og bládögg þýð
tindra við ljóstærar lindir.

Ei veitist oss önnur svo væn og rjóð,
vors veldis hróður;
í Valhöll er hún og gjöld fær góð,
en gjörvöll þjóð
með börnunum biðja um móður.

Oss Beli sjóli nam sækja' opt heim
um sumarstundu,
og borin er svanni buðlungi þeim;
ei betri' um heim
eg silki- veit svanhvíta -hrundu.

Ung er sú víst, og yngismær
kýs ung blóm plokka,
eg visið er lauf, og vetrarsnær
sér víða slær
um lofðungs fölnaða lokka.

En vilji hún Hringi hýru ljá,
þanns kærur skreyta,
og vilji in bjarta' um börn vor smá
með blíðu sjá,
þá mun hástól sinn haust sumri veita.

Og veljið nú skraut fyrir skjöldungs jóð
úr skríni eikar,
og fylgið þér, skáld vor! og flytjið óð,

því fögur ljóð
við bónorð sama og brúðarleika».

Og garpar fóru í glæstri þröng
með gjafir dýrar,
og skáldanna fylking var furðulöng;
við fagran söng
þeir komu í sal, þars sátu hlýrar.

Þeir drukku með bræðrum í daga þrjá
við dýrð og teiti,
og erindum síðan þeir sögðu frá,
og sjóla þá
þeir frétta, hver andsvör ferðbúnum veiti.

Helgi þá blóta vann hauki' og mar
í helgum lundi,
og blótmenn og völur buðlung snar
nú bað um svar,
hve svanfríðu samdi ráð sprundi.

Og vilin gáfu vilspár ei
né völva heldur,
og Helgi sendi Hringi nei
um hýra mey;
grimm eru rök þau, er goðþjóð veldur.

En Hálfdan mælti og hló um leið:

«Það helzt er skaði;
að gleðinni spilltu goðin reið
við grimman seið;
svo styðjum þá Hring karl úr hlaði!»

Heimleiðis sendimenn hraða ótt
og hraksvör inna,
en gamall þengill við göfga drótt
þá greinir skjótt:
«Inn gamli mun hefna harma sinna».

Og Hringur jöfur á herskjöld sló,
er hékk á meiði;
með dreyrug gin þá drjúgum fló
hver dreki á sjó,
og hjálmarnir lýstu mót heiði.

Þá Helga sveitin sögu' þá ber,
hann svarar byrstur:
«Oss tjón er búið, því hraustur her
með Hringi fer;
í Baldurshof setjum vér systur».

Nú situr í hofgriðum silkihlín
með sorg í lyndi;
með fínasta gulli hún faldar lín,
en fegurst skín
þó harmdögg á augnanna yndi.

## VI.

## Friðþjófur situr að tafli.

—

Sat með fræknum fósturbróður
Friðþjófur að tafli hljóður;
rendir silfri og rauðagulli
reitir skiptust borði á.

Hilding þá í höllu gengur,
honum fagnar prúður drengur.
«Sit og tak við fögru fulli,
fóstri kær, og tafl vort sjá».

«Kveðju ber eg Bela niðja,
báðir Friðþjóf hjálpar biðja,
nauðsyn knýr þá liðs að leita,
landið gjörvalt treystir þér».

Bragning mælti: «Björn, þín gættu,
buðlung er í stórri hættu,
bóndinn honum björg má veita,
bóndinn jafnan skotspónn er».

«Egn ei, fóstri, unga hara,
óðum þroskast jóðin ara,
þótt þeir Hringi miður megi,
meiri bræður eru þér».

«Björn, í hættu hrók þú setur,
hetju valda skal eg betur,
hans þú framar hefur eigi,
hrókur inn í skjaldborg fer».

«Ingibjörg í Baldurshaga
beiskan grætur alla daga,
getur þig ei ginnt að morði
grátin mær með augun blá?»

«Drottning, Björn, þú bifar eigi,
brúður þá frá æskudegi
þekki' eg, hún er bezt á borði,
bjarga þeirri víst eg má».

«Skal eg jafnnær frá þér fara,
Friðþjófur, þú vilt ei svara,
leikur eins og ekki væri,
óbænheyrðan lætur mig».

Kappinn upp þá stóð að stundu,
styrka Hilding réttir mundu:

«Svörum, fósturfaðir kæri,
fullum hef ef sæmdan þig.

Belasonum svör mín tjáðu,
saklausan mig gylfar smáðu;
ég er laus við jöfra báða,
ég sit aldrei þeirra bekk».

«Þig skal ekki þar um saka,
þú munt sjálfur ráð þér taka;
Alfaðir skal öllu ráða»,
aldinn kvað, og brautu gekk.

## VII.

## Unaðarstund Friðþjófs.

—

«Þeir bræður sveitir saman draga
og sveima um' storð að biðja' um lið;
en eg í blíðum Baldurshaga
mér bústað á og vopnasvið,
og gleymi sennu sjóla snjallra
og sorg og gleði' um foldarhring;
þá drekk eg munað Ása allra
með Ingibjörgu tvímenning.

Á meðan sólin tvinnar tæra
sitt töfragull í blómsins skraut,
og blikar eins og blæjan skæra
um brúðar minnar yndis-skaut,
á meðan kyrr eg stend á ströndum,
og stúrinn bíð með heita þrá,
og meyjarnafn á svölum söndum
með sverði rita til og frá.

Hve seinlát er in sæla stundin?

þú sólargoð! hví dvelur þú,
sem séð ei hefðir svása lundinn
og sund og eyjar fyrr en nú?
Er hvergi mær í Vesturvegi,
sem væntir bráðlynd eptir þér,
að blíða ást þér birta megi,
og brjóst þitt upp við halla sér?

Í Ránar-faðm þú loksins líður,
og leiptri sveipar himinvæng,
og festir rósa-blæju blíður
að bjartra goða værri sæng;
um ástir kveður aptangjóla,
um ástir lindin hjala fer,
og fornlynd goðafóstran, njóla,
með flogagulli skautar sér.

Svo hægt fram stjörnur ljósar líða,
sem læðist sveinn á meyjar fund;
of voginn skunda fleyið fríða,
en fylgdu' á eptir græðis sprund!
í mót oss glóir goðalundur,
og goðaheill oss hvergi dvín;
í Baldurshofi feginsfundur
með Freyju sjálfri bíður mín.

Hve feginn set eg fót á ströndu!
ó fold! hve ljúft eg kyssti þig

og lundinn, sem með rauðri röndu
úr rósum fléttar hvert mitt stig!
Þú máni, sem frá stjörnustraumi
nú stráir gulli lund og bý,
þú brosir nú svo blítt í draumi
sem brúðarhúsi Saga í.

Hver hefur ljúfri lind, sem talar
við liljur, kennt minn hjartans óð?
og yður, Noregs næturgalar!
mín næmu' og heitu munarljóð?
Með leiptrum ásýnd Ingibjargar
oss álfar mála himindúk,
en dýrri mynd hún Freyja fargar
og feykir brautu öfundssjúk.

En lítt eg ímynd svanna sinni;
hún sjálf er hér, sem vonin fríð,
og trú, sem barnsins trygga minni,
hún til mín skundar ástarblíð:
Kom, bjarta mær! að brjósti mínu,
mitt blíða yndi' og munarþrá!
í faðm mér halla höfði þínu,
með hýru augun, djúp og blá.

Þú sýnist grönn, sem sumar-lilja,
og svellur þó sem rósin prúð,
svo ítur-hrein, lík Óðins vilja,

og yndis-vörm sem himinbrúð!
Ó, kyss mig, svo minn Lofnar-logi
sig læsi eins í gegn um þig;
mér hverfur jörð og himinbogi,
þá hjartans-mey! þú kyssir mig.

Ei hræðast þarftu hættu neina,
inn hrausti Björn við ströndu er
með hugarprúða' og horská sveina,
sem hræðast myndu' ei ægan her.
Hve feginn vildi' eg, væna meyja!
þig verja svo í faðmi mér,
og, valkylja', ef þú værir, deyja;
til Valhallar þá fylgdi' eg þér.

Hví hvískrar þú um Baldurs bræði?
ið blíða mun ei reiðast goð,
í augsýn hans þótt unnumst bæði,
því ást er hans ið milda boð;
inn bjarti Ás með hyggju hlýrri
svo heitt sem við og munarblítt
hann unni Nönnu áður hýrri
með ástargeðið varmt og þýtt.

Eg mynd hans sé, til mín hann lítur,
og milt er yfirlit og blítt;
að fórn hann mitt nú hjarta hlýtur,
svo heitt og traust og ástarþýtt;

nú lotning goði ljósu veitum,
ei ljúfara má hann þiggja blót,
þeim sömu tryggða svásum heitum,
er sjálfur forðum vann hann snót.

Þú mátt ei ástum mínum hafna.
úr mannheim eru' ei sprottnar þær;
úr goðheim kemur gleði sjafna,
og goðheim þráir, ljúfa mær!
Hve glöðu skyldi' eg geði deyja,
og goða svífa' í himinlund,
í faðmi þinum, fríða meyja!
ef fegins væri komin stund.

Um silfurhlið þá herjar bruna
í hjörvaleik, við síðu þér,
eg helzt mun kjósa heima una,
sú himinsæla dýrust er;
þá goðaveigar, gyðjan þekka
í gullnum hornum byrlar drótt,
með einni þér eg ætla' að drekka
og ástarblíðu hvískra hljótt.

Þar vil eg laufsal, brúður! byggja
á bjartri strönd við mararsund;
með skjóli þar oss skulum tryggja
í skuggasælum goðalund.
Þá blíðheims röðull rís um morgna

(ei röðli fegra neitt er þeim),
í Valhöll inn við förum forna,
en fúsari' þó að kveldi heim.

Úr stjörnum skal eg sveig þér, svanni!
um svása binda lokka-glóð,
og við þig danza' í Vingólfs-ranni,
svo verði kinn þín fagurrjóð,
unz þreytt við heim úr glaumi göngum
í goða heilög skuggatjöld,
þar meður blíðum brúðarsöngum
oss Bragi skemmtir sérhvert kvöld.

Hve syngja þrestir sætt um lundinn!
sá söngur kemur Valhöll frá;
hve fagurt máninn silfrar sundin! —
af sælli storð er ljómi sá;
þau ljóðin skær og bjarminn boða
oss betra lund og fegra hörg;
þá grund mér þætti gaman skoða
á Gimli með þér, Ingibjörg!

En hættu gráti — heitir straumar
í hjarta mínu svella enn,
og æðrazt ei, því ástadraumar
í æðra heim opt flytja menn;
en óðar faðm þú blíðan breiðir
og björtum augum sér til mín;

inn hugum-stolna heim þú leiðir
úr himinsælu, snót! til þín.

«Til lævirkjans eg heyri'». Í húmi
svo hjúfrar dúfan blíð og trú,
en lævirkinn í lágu rúmi
með ljúfum maka sefur nú;
þau sælu hjón ei skilnað skilja.
en skemmta mega' í næði sér,
og vera frjáls sem veðrakylja,
um víðan himin sem þau ber.

«Sjá, dagur rís». Af fjöllum framan
þú fagran vita leiptra sèr;
við megum enn þá sitja saman,
in sæla nótt ei liðin er;
æ, sofðu dagsins dýra stjarna!
og dveldu enn þá langa stund;
til ragnakvelds þér, Glóey! gjarna
eg gæfi leyfi' að festa blund.

En óskir heitar eigi stoða,
í austri fagur morgunn skín
með sama himinrósa-roða,
sem reifar kinn á silkilín,
og þúsund raddir þrasta titra
og þylja morgunljóðin dýr;

nú lifnar allt og öldur glitra,
og unnustinn með skuggum flýr.

Nú rennur sunna rósum skærri;
ó, reiðst ei minni heimskubæn;
nú finn eg glöggt, að goð er nærri;
svo guðum-fríð er sólin væn;
hve sæll er hann, er svífa fengi
eins svása æfibraut og hún,
og ljós og sigur gegn um gengi
með gulli skráða frægðar-rún.

Þitt heilagt auga, sunna! sér nú
það svásast er á norðurgrund;
og meyjar skjól og skjöldur ver þú,
því skærust ímynd þín er sprund;
þinn himinn býr í hennar auga,
svo hrein er mær sem geisli þinn;
þín gullhár hennar lokka lauga,
þitt leiptur skreytir hennar kinn.

Og far nú vel, mín brúður blíða!
og bíð mín sælli nætur-stund;
æ, far nú vel; á vangann fríða
og varir þiggðu kossa, sprund!
til svefns nú gakk og síðla vakna

og sárar vonarstundir tel,
og mín í vöku' og svefni sakna
með sömu þrá og eg. Far vel!»

---

## VIII.

# Skilnaður Friðþjófs og Ingibjargar.

—

*Ingibjörg:*

«Það daga fer, og Friðþjófur er ei kominn!
og þó var þjóðarþingið sett í gærdag
á Belahaugi — vel var valinn staður
að útkljá þar mín örlög, dóttur Bela! —
Hve heitum bænum hef eg eigi fórnað,
hve heitum tárum hef eg eigi grátið
við Freyju hörg, svo heiptarísinn félli
af Friðþjófs hjarta, og hans ofmetnaður
þó loksins vildi selja hönd til sátta!
Ó, harði karlmannshugur! sökum þess,
er sæmd hann kallar (öðru orði, drambs hans),
hann telur ei þótt trúfast hjarta springi.
En konan, sem við mannsins brjóst er bundin,
hún líkist mosajurt á harðri hellu,
með fölvum lit, sem fæstir geta séð,
og sem á bágt við bergið fast að gróa,
og fær ei næring nema nóttin tárist.

Í gærdag var minn dómsúrskurðar dagur

og dagsins auga huldist dimmri nóttu,
en Friðþjófur var fjærri; stjörnur komu
og stjörnur hurfu, hver á eptir aðra,
með hverri þeirra hýrar vonarstjörnur
í þessu brjósti gengu' um leið til grafar.
Og til hvers er að vona? Goð í Valhöll
ei vilja sinna mér, sem hefi styggt þau.
Hinn hvíti Ás, í hofinu' er mín geymir,
hann hatar mig, því ástir jarðarbarna
í augsýn goða eru' ei nógu skírar,
og jarðnesk gleði' og glys má eigi koma
í goðahof, þar undir hvelfdu rjáfri
í helgri kyrrð sér himin-búinn unir.
En samt sem áður sek em eg þó eigi,
og sakir hvers er Ásinn þá svo reiður,
af ástum hreinnar meyjar? Eru þær
ei skírar eins og Urðarbrunnur, eða
sem morgundraumar þeir, er Gefjun dreymir.
Og sólin, þetta helga himins auga,
ei fælist heldur elskendur, sem unnast,
og dagsins ekkja, heiðbjört nóttin, heyrir
í harmi sínum gjarnan þeirra eiða.
Hve má það, sem und berum himni' er bjart,
í Baldurshofi verða ljótt og svart?

Eg elska Friðþjóf; æ svo langan tíma
sem eg get munað, hef eg elskað Friðþjóf;
það ástarþel er jafngamalt og ég er;

nær það kom til, eg hvorki man né hitt
eg hugsað get, að svo hafi' ei verið jafnan.
Sem aldinvöxtur vex um fagran kjarna
og verður stór og fagurgullinn hnöttur
mót heitri sól á hlýjum sumarmorgni,
svo hef eg þroskast æ um þennan kjarna,
og er þó eðlisfar mitt að eins skurn hans.
Ó reiðst ei, Baldur, því með bljúgu hjarta
eg kom til þín og kveðja skal þig líka.
Eg tryggðir mínar bera vil of Bifröst
svo ást mín verði' í Valhöll Æsum kunn,
og goðborin með goðum skal hún búa
og ímynd sína sjá í skyggðum skjöldum,
á dúfuvæng í gegnum geima fljúga,
og Gimli byggja, þar sem fyr hún bjó
með Alföður — hví ýglist Ásinn góði
og ásýnd hylur fyrir dagsins birtu? —
Í mínum æðum eins og þínum rennur
þó ásablóð; ó, frændi, seg, hvað viltu?
því ástum má eg eigi fórna þér,
og eigi vil, þær sæma' ei himni þínum,
og hamingju minni' í heimi má eg fórna,
og frá mér varpa, líkt og drottning kastar
burt möttli sínum, og er söm og áður
og breytist ekki. — Eg vil breyta eins;
og aldrei skulu goðin þar í Valhöll
sig fyrirverða frænku sinnar vegna;
og því sem kemur kvíða skal eg eigi;

sem kappinn. — Þarna sé eg Friðþjóf koma!
Hve æstur, fölur! — Er þá öll von úti?
Eg illar fylgjur sé í ferð með honum.
Ver hraust, mitt hjarta! — Heill, minn kæri vinur!
Velkominn, ástvin, kominn seint um síðir!
Vor skapadómur skín á enni þínu,
eg sé það glöggt». —

*Friðþjófur:*

«En sérðu þar ei líka
með dreyrgum rúnum sektir, heiptir, háðung
og flótta' og útlegð? —

*Ingibjörg:*

«Friðþjófur! ó, gæt þín,
og seg, hvað orðið er; eg vænti' ins versta,
og viðbúin er tíðindin að heyra».

*Friðþjófur:*

«Eg kom á þing á kumbli frænda þinna;
í kring um hauginn stóðu Noregs bændur
með sverð í höndum, skjöldur nam við skjöld
umhverfis hauginn, hringur yfir hring
að haugsins kolli, þar sem sat á steini
þinn rammi bróðir, blótmaðurinn Helgi,
eins sýnum þrútinn eins og þrumuský;
við hlið hans Hálfdan lék að léttu sverði,
fulltíða barn, án hugsunar og hyggju.
Þá hóf eg mál og mælti: «Styrjöld mikil
nú æpir heróp hátt á landamærum;
og ríkið, Helgi, er í háska statt;

gipt þú mér systur þína; þrótt og fullting
eg legg í mót, og má þér lið að verða,
og lát svo gamla óvild niður falla;
eg sættist fús við bróður Ingibjargar;
ver sanngjarn, Helgi, sjáðu' í einu borgið
tign ríkis þíns og auðnu Ingibjargar,
eg sel þér hönd og sver við Ása-Þór,
að síðsta skipti býð eg þér nú sættir».
Þá verður gnýr á þingi, þúsund brandar
á skjöldum glumdu, gleðiópið fólksins
og vopnabrakið hóf sig hátt til skýja,
sem himininn gleddist frjálsra manna rómi:
«Friðþjófi giptist Ingibjörg in fagra,
sem fríðust lilja er í dölum vorum!
En hann er landsins bezti verndarbrandur;
svo fái' hann hennar!» Fóstri okkar aldinn,
Hildingur, kom með hærur silfurhvítar,
gekk sjálfur fram og fagurlega mælti
í kjarnyrðum, sem kveði stæltir hjörvar,
og þá stóð Hálfdan upp af hástól sínum
og bað með orðum og með augnaráði,
en ekkert dugði, því að bænir allar
þær hurfu líkt og verkun sólarvarmans,
er vekja freistar líf úr dauðu grjóti,
og svipur Helga var sér sjálfum líkur,
og svellköld neitun gall við heitum bænum:
«Einn bóndason» — hann sagði meður spotti —
«eg svara virti', en þessum goðgármanni

goðborna systur gef eg aldrei, aldrei!
Þú, Þjófur, hefirð' ei brotið helgi Baldurs
og brúði séð um nótt í hofi goðsins,
og lézt ei myrkrið munað ykkarn dylja?
Já eða nei?» Þá æpti allur lýður:
«Seg nei, seg nei, vér svari þínu trúum,
þú sonur Þorsteins, konungs sona jafni!
Seg nei, vér fylgjum fast með þínu máli,
og þú skalt eignast Ingibjörgu fögru!»
«Þótt öll mín örlög hvíli á einu orði» —
þau andsvör gaf eg — «hræðstu þó ei, Helgi,
því hvorki skal eg ljúga mig til gleði
á jörð né Valhöll; eg hef séð og hjalað
við systur þína' í helgu rökkri hofsins,
en helgi Baldurs hef eg aldrei saurgað».
Eg fékk ei meira mælt, því dimmur kurr
á þingi reis, og þeir, sem næst mér stóðu,
sér þokuðu' undan, sem frá nöðru eitri;
eg litast um, og sè hvar helbleik hjátrú
er hlaupin burt með vit og mál og rænu
frá þeim, sem áður glumdu' af glöðum vonum.
Þá sigrar Helgi; hásum rómi kvað hann
og hræðilegum eins og forðum þegar
í Vegtamskviðu valan spáði Óðni
og Æsum heiptarspár, en Helju sigur:
«Eg gæti dæmt þér dauða eður skóggang
um þessa sök, að fullum feðra lögum,
en sakir Baldurs, sem þú hefur svívirt,

þú skalt fá vægð, en vinna skaltu nokkuð:
Í vestur héðan eru miklar eyjar;
þar ræður Angantýr, einn ríkur jarl,
og meðan faðir vor hér fyrir réði,
var skattur þaðan sendur, síðan enginn.
Þú fara skalt þá ferð, og sækja skattinn
og færa oss að bótum dirfsku þinnar;
mælt er, að jarl sá hafi harðar krummur,
(svo Helgi mælti enn með köldi glotti),
og liggi' á gulli líkt og forðum Fáfnir,
en Fáfnisbana' inn unga skal nú reyna.
Nú mun það mælt, sú ferð sé meiri fremd
en fífla konur hér í Baldurshaga.
Í vor sem kemur vænti eg þín aptur
með virðing heim, en um fram allt með skattinn;
níðingur hvers manns heita skaltu ella
og hafa griðum fyrirgjört og landsvist!»
Með þessum orðum þingi kvað hann slitið».

*Ingibjörg:*

«Og ráð þitt er? —»

*Friðþjófur:*

«Eg á úr vöndu' að ráða,
því virðing mín er veðsett kröfum Helga,
þær vil eg fylla, þó að Angantýr
í Elivogum hafi gull sitt grafið;
eg læt í haf í dag» —

*Ingibjörg:*

«Og lætur mig

hér eina?»

*Friðþjófur:*

«Nei, þú Friðþjófi skalt fylgja».

*Ingibjörg:*

«Eg fylg' þér eigi».

*Friðþjófur:*

«Heyr mig fyr en svarar.
Mér virðist, sem þinn vitri bróðir hafi
því alveg gleymt, að Angantýr var vinur
eins föður míns og Bela; vel má vera,
að viljugur hann gegni mínum kröfum;
að öðrum kosti ber eg traustan talsmann
og tunguhvassan hér að vinstri síðu.
Eg sæki gullið, svala hungri Helga,
og leysi okkur undan blótmanns hnífnum.
Á Elliða við síðan vindum segl,
og siglum langt í burt til fjarri heima,
og vera má oss brosi blómsæl strönd,
er býður vorum ástum grið og landsvist.
Hvað hirði eg um land, þar huglaus lýður
af hræðslu titrar fyrir seiðmanns orði,
og dirfist toga helgidóm míns hjarta
úr höndum mér og ræna blómstri lífs míns.
Nei, viti Freyja, það skal þeim ei takast!
Einn vesæll þræll er við þá torfu bundinn,
sem hann er fæddur á, en eg er frjáls
og sjálfráði, sem svalur fjallastormur.
Á dreka mínum moldarrekur tvær

frá haugi föður míns og haugi Bela
eg með mér hef, og fer af fósturjörðu
nú þegar brott; við þurfum eigi meira.
Vit, Ingibjörg, að önnur sól er til
en sú, sem blikar hér að baki jökla,
og til er himinn heiðríkari' en þessi
með hýrum stjörnum, sem með unaðsljóma
um varmasælar sumarnætur skína
og skemmta elskendum í eikilundum.
Því Þorsteinn faðir minn á ferðum sínum
kom víða við, og sögur margar sagði,
er sátum vér við langeldinn á kvöldum,
um Grikklandshaf með ótal eyja grúa,
sem eins og grænir lundar stíga' úr sænum;
þar bjuggu, kvað hann, forðum frægar þjóðir
og heilög goð í hofum fagurreistum;
en nú er allt í auðn og grasið þekur
þar eyðistigu; grannar liljur spretta
af rúnum þeim, sem ræða' um forna speki,
og grannar súlur gnæfá þar á rústum,
sem vínviðurinn vefur grænu skrauti,
og ósáð jörð þar allan gróða veitir,
sem æskja má, og gullin aldin blika
í viði þar, og vínber rauð á greinum,
sem varir þínar, svella þar af þroska.
Þar, Ingibjörg, þar ættum við að una
um langa æfi', og lítil Norðurlönd,
en fegri þessum, hitta þar í höfum;

og ástir okkar aptur skulu nema
in hvelfdu hof, og himintívar gleymdir
með glöðum skulu gleðjast eins og forðum.
Og sigli farmenn fagurblíðan byr
(því stormur þrífst ei þar) hjá okkar eyju,
og vaggi sér um sóluroðin kvöld,
og upp á gullna ströndu glaðir horfi,
þá hlær við þeim í dyrum heilags hofs
in yngri Freyja (*Afrodíta* kölluð
á tungu þeirra, trúi' eg), og þeir undrast,
er sjá þeir blævind bifa lokkagullið,
og blíðu augans blárri suðurs himni.
Og innan skamms mun skari henni fylgja
af ljósum álfum, lítill goðaheimur
með rjóða vanga, eins og rósir sínar
á norska mjöllu suðrið hefði sáldað.
Hve fagurt, Ingibjörg, hve afar-nærri
hlær auðnan eigi öndum þeim, sem unnast?
Ef hugurinn hefur þor að þiggja' og grípa,
hún fús vill fylgja þeim, og byggir Vingólf
á hjara yztum heims og gefur þeim.
Kom, flýt þér, vit, að hvert það orð, þú hjalar,
af okkur sælu augnabliki rænir.
Sjá, allt er búið; út með þöndum vængjum
á augabragði Elliði vill fljúga
brott héðan beint til hafs með hvössum vindi,
frá þessum heimsku hleymidóma ströndum.
Hví hikar þú?»

*Ingibjörg*:

«Eg get ei farið með þér».

*Friðþjófur:*

«Þú getur ei?»

*Ingibjörg:*

«Þú, Friðþjófur, ert farsæll,
þú fylgir engum, gengur sjálfur fremstur,
sem stafn á dreka þínum, en við stýrið
er vilji þinn það vald, sem ræður horfi,
þótt stríðir feykistormar æsi hafið.
En vit þú, mér er varið öðruvísi,
á valdi annara mín forlög hvíla,
sem hirða lítt þótt hjarta mínu blæði.
Að ofurselja sig og syrgja' og harma
og sífelt gráta, það er allt mitt frelsi».

*Friðþjófur:*

«Nei, þú ert frjáls ef vilt. Þinn faðir hvílir
í haugi sínum».

*Ingibjörg:*

«Helgi bróðir minn
er faðir minn, og fylgja ráðum hans
eg dæmd er til, og dóttir Bela stelur
ei auðnu sinni, þótt í greipar gangi.
Hvar stæðum vér, ef slíta vildum bönd þau,
sem Óðinn festi milli veikrar meyjar
og mannsins sterku yfirráða' og vilja?
Því konan líkist lilju í grunnum sæ,
sem bára lyptir, bára dregur niður,

og sæfarinn, sem siglir yfir hana,
ei sinnir hót, þótt skerist hún í sundur.
En þó að forlög hennar falli svo,
hún fölnar ei né týnist meðan rótin
er föst við botninn; bleikar himinstjörnur
opt systur sinni, sem er líka stjarna,
í bláu djúpi birtu sinnar lána;
en rífi hún sig upp, hún rekst með straumi
um reginhöf og verður eintómt hismi.
Í fyrri nótt — sú nótt var full af ógnum —
eg vænti þín og vakti', en þú komst aldrei,
og raunamyndir þær, sem rökkrið fæðir,
svipillar fyrir sjónir mínar liðu;
og Baldur sjálfur, blóðlaust goðið, horfði
svo byrstur á mig, svo mér stóð af ótti.
Í fyrri nóttu hugsaði' eg um hag minn,
og festi' í huga mér að hýrast eptir,
sem hlýðin fórn við blótstall grimmlynds bróður.
En þó fór vel að þá eg hlýddi eigi
á sögu þína' um sæumgirtar eyjar,
þar kveldroðinn um blíða blómsturvelli
með ást og yndi gyllir fold og flæði.
Eg veit ei hversu veik eg er; og draumar
frá æsku minni, sem að lengi sváfu,
þá hrökkva upp og hvísla mér í eyra
eins hlýleg munarorð, sem systir ræði.
Eg ansa eigi, nei, eg ansa eigi,
þér yndislegu, fornu munarraddir,

því hverja sælu sækti norræn meyja
í Suðurheim; mig skortir lit og blóma
við rósir hans; minn hugur er of kaldur
í hitaglóð hans; mundi eg ei brenna
af sólarhita, og hugurinn hvarfla norður
með stjörnunum, sem standa þöglar yfir
ættfeðra haugum, fastir friðarverðir?
Þú mátt ei flýja, Friðþjófur, þær byggðir,
sem fæddur ertu til að verja' og styrkja;
þú mátt ei selja sæmd og allan drengskap
í sölurnar, þótt ást til konu banni.
Sú æfibraut, sem blessuð sólin spinnur
úr jöfnum dögum — fögur æfi og fábreytt —
sjá, hún er hlutfall kvenna; karla hugur,
og helzt þinn sjálfs, hann hatar kyrrð og ró;
við þig á bezt' er sterkir voða-stormar
í kring um knör þinn þrymja' á þrúðgu hafi,
og líf þitt áttu' að verja' og vinna orðstír
með víkingum á blóðistokknum þiljum.
Sú munarkyrrð, sem mynda varstu áðan,
hún mundi jarða hreystiverkin, sem þú
átt óunnin, og eins og skjöldur þinn,
þinn frjálsi hugur feyskjast mundi' og ryðga.
Nei, það skal eigi, aldrei skal eg stela
úr ljóðum höfuðskálda lofstír Friðþjófs,
og aldrei skal eg slökkva frægðar-framann,
þann morgunroða', er krýnir ungan kappa.
Ver forsjáll, vinur, forðumst illar nornir,

og björgum okkar sæmd úr sjávarháska
vors auðnuláns — þótt auðnan sjálf sé týnd.
Við hljótum skilja».

*Friðþjófur:*

«Hljótum? — Sakir hvers? —
Af því að þú varðst andvaka og óglöð?»

*Ingibjörg:*

«Nei, af því okkar virðing er í veði».

*Friðþjófur:*

«Á mannsins ástum meyjar virðing hvílir».

*Ingibjörg:*

«Sá ann ei mey, sem eigi virðir hana».

*Friðþjófur:*

«Hans virðing má ei vinna tómum brekum».

*Ingibjörg:*

«Að virða' ið rétta, eru engin brek».

*Friðþjófur:*

«En ást vor var því eigi mót í gærdag».

*Ingibjörg:*

«Og eigi' í dag, en flóttinn rekur eptir».

*Friðþjófur:*

«En nauðsyn okkar hrópar: komið, komið!»

*Ingibjörg:*

«Allt, sem er rétt og ágætt, það er nauðsyn»,

*Friðþjófur:*

«Ó, sól er hátt á lopti, tíminn líður».

*Ingibjörg:*

«Hann liðinn er að fullu og öllu mér».

*Friðþjófur:*
«Svo gæt þín þá. Er þetta hinnsta orð þitt?»
*Ingibjörg:*
«Eg þarf þess eigi; þetta' er hinnsta orð mitt».
*Friðþjófur:*
«Svo far þá vel, in fagra konungs systir!»
*Ingibjörg:*
«O, ástvin, ástvin, á þá svo að skilja?
Ó, hefurðu' engin ástarhót að bjóða
mér fóstursystur þinni? Áttu enga
hönd til að rétta unnustunni aumu?
Hvort hyggur þú, eg hvílist hér á rósum
og hlæjandi eg neiti minni gæfu
og slíti harmalaust úr hjarta mínu
þær vonir, sem með veru minni fæddust?
Varst þú ei æ minn ástar-morgundraumur?
Þú Friðþjófur hét allt, sem gaf mér fögnuð
og allt, sem til er ágætt, stórt og veglegt
í augum mínum, var þér eitthvað svipað.
Ó, þessa mynd þú mátt nú eigi deyfa,
né móti hinni veiku reynast harður,
mót henni, sem nú hlýtur nauðug fórna
því hlutskipti, sem dýrast er á jörðu
og dýrast mundi' í Valhöll. Þessi fórn
er fullþung samt. Ó, Friðþjófur, eg ætti
ef til vill heldur huggun nokkra skilið.
Að annstu mér, eg veit og lengi vissi,

og minning Ingibjargar mun þér lengi
á ferðum þínum fylgja ár frá ári;
en sorgin dofnar þó við sverðahviður
og svífur til og frá með hafsins öldum,
en dirfist ei að setja sig að sumbli,
er sigurminni ungir garpar drekka.
En við og við hún vitjar þín þó kannske,
er næturkyrrðin kallar löngu liðna
lífstund í hug þér, þá mun hljóð og hörmug
þér máske birtast mynd, er vel þú kennir
og kveðju ber frá kærum æskustöðvum.
Sú mynd er brúður þín frá Baldurshaga,
og hennar mynd þú hrekja mátt ei frá þér,
þótt harmi sollin sýnist; mundu heldur
að hvísla ástarorð í eyra henni,
sem næturblærinn fljótt mun aptur flytja;
þá eina veit eg huggun, enga aðra. —
Hjá mér er ekkert, sem minn söknuð skilur,
þótt sorgarmáli tali allt um kring mig:
ið háa rjáfur hofsins talar sífellt
um þig, og goðið sjálft, þótt sýnist ógna,
fær svip þinn einnig, þegar máninn lýsir.
Eg lít til hafsins, þar sem þú réðst forðum
til þeirrar, sem þér unni, stýra knerri;
eg geng mig út í lund, þar laufgar bjarkir
þær rúnir sýna, sem þú ristir forðum
mitt nafn á; það mun gróa burt og gleymast,
og þá er maður feigur, segir sagan.

Eg að spyr daginn, hvar þig síðast sæi' hann,
og svarta nóttu eins, en bæði þegja,
og hafið sjálft, sem ber þig, svarar eigi,
en stynur þungan fyrir ströndu frammi.
Með kvöldroðanum skal eg kveðju senda
í hvert sinn hann þig bárum sínum baðar,
og skýin, loptsins langskip, skulu veita
sinn farkost meyjar hreldum harmatölum.
Í skemmu minni sit eg ein í sorgum,
sem svartklædd ekkja eptir lífsins gleði,
og sauma' á bækur brotna liljukvisti
til þess, er eitt sinn vorið blíða vefur
með vænni liljum blæju grafar minnar.
En taki' eg hörpu' í hönd og stilli strengi
og ætli mér með djúpum sorgarsöngum
að lýsa mínum þungu hjartans hörmum,
þá grípur grátur fyrir, eins og nú». —

*Friðþjófur:*

«Þú sigrar, kæra konungsdóttir; grát ei
og ræk ei reiði mína; það var hryggðin,
er rétt í svipan tók sér gremju gerfi,
en gerfi því hún skjótt mun aptur varpa.
Þú, Ingibjörg, ert æ mín heilladís;
inn góði kennir bezt ið góða og sanna,
og vissa nauðsynjarinnar fær varla
þér vitrari og ágætari talsmann,
þú vala fríð með fagurrjóðar varir!
Svo hlýt eg þá að hopa' á hæli' um sinn,

og við þig skilja', en vonin, hún skal fylgja
og með mér sigla burt í Vesturveg
og vera með mér allt til hinnstu stundar.
En næsta sumardag eg sigli heim,
og Helgi, frændi þinn, þá finna skal mig,
og loforð mitt skal efnt og leyst mitt heiti,
og rógsök mín skal rétt og bætt að fullu.
Þá bið eg þín, nei, heimti mér til handa
á þingi, meðan þrymja sverð á skjöldum,
og ei af Helga, heldur alþjóð landsins,
sem ein skal kosti konungsdóttur ráða,
og þann, er synjar, þyrfti ég að finna!
Og far nú vel, og vinn mér fullar tryggðir,
og eig til menja ástar vorrar bernsku
armhringinn þennan; Völundur hann gjörði
og himins undur greypti öll í gullið,
en hjarta' í miðju, — sem er hnossið mesta».
(Hann fer).

*Ingibjörg:*

«Hve djarfur, vonsæll, hugrakkur og hraustur
hann hristir sverðið stælta rétt við brjóstið
á sinni norn, og segir: «hopaðu' undan!»
Æ, Friðþjófur, hún hopar ei að heldur,
hún hlær að Angurvaðli, gengur rakleitt.
Þú þekkir ekki minn inn myrkva bróður,
og þín in hreina hetjusál ei kennir
ið hatursfulla djúp, sem ávallt sýður
í geði hans af grimmri heipt og öfund.

því aldrei gefur hann þér systur sína,
hann selur fyrr af hendi líf og ríki
og blótar systur sinni öldnum Óðni
eða ella Hringi gamla, sem hann berst við.

Þótt blíðar vonir bregðist þannig mér,
eg ber mig vel, fyrst þú átt öruggt hjarta,
og þó mig hrelli harmarökkrið svarta,
eg heiti' á hverja dís að fylgja þér!
Á armhring þínum tímann get eg talið,
þó tregastundin verði þung og mörg,
unz heim þú kemur — hold er foldu falið,
þú finnur hvergi þína Ingibjörg».

## IX.

## Grátur Ingibjargar.

—

«Komið er haust,
kveða við hrannir með nákaldri raust;
samt mínu hugstríði hægir
helzt fram við ægi.

Sat eg og sá
seglið, unz hvarf það mér vestur í sjá;
inndælt má Elliða vera
ástvininn bera.

Hrannir um sjó!
hamizt ei svo, gengur skipið ei nóg?
Lýsið þér, stjörnur, á legi
leiðina fleyi!

Fagur í vor
Friðþjófur kemur, en heitmeyjar spor
hittir ei hetjan í salnum,
hofi né dalnum.

Liðin og köld
liggur hún þá — eða tryggðanna gjöld
þolir í helfjötrum harma
harðlyndra barma.

Vængprúðum val
vinur minn gleymdi; þann mata ég skal,
vandlega varðveita' og eiga
víkinginn fleyga.

Hann skal á hönd
húsbóndans sitja við dúks þessa rönd;
glitvæng eg gef honum fríðan,
gullklóm eg prýði' hann.

Fagurleit fló
Freyja sem valur um hauður og sjó;
Óðar með hjartaþrá heita
hún var að leita.

Hamur af þér
hentar ei, valur! þó léðirðu mér;
vængi svo veiti mér Freyja,
verð eg að deyja.

Öxl minni af,
augnsnari fullhugi! líttu' út á haf.

Hvernig sem horfum og þráum,
hann við ei sjáum.

Heimti mig hel,
heim fyrr enn kemur hann, skilaðu vel
heilsan frá heitmeynni látnu
hetjunni grátnu».

---

## X.

## Vesturförin.

—

Stóð á ströndu
stillir Helgi
grimmgeðjaður
og á gýgjar hét.
Sortnar þá að svörtu rökkri,
svífa' um loptið þrumuský,
þyngir Ægisdóttur dökkri,
dynur faldi hvítum í;
loga-reiðir rauðum böndum
ragna skreyta þrútið tjald;
hnípinn sjófugl heim að ströndum
hraðar sér of bárufald.
«Hvessir nú, hlýrar!
heyri' eg storma
vængjum veifa,
víkjum ei að heldur.
Bíð þú í lundi,
blíð, tárfögur,

Ingibjörg mæra!
minnar komu».

---

En tröllkonur
tvær upp komu
Hamglöm og Heiðr
við hlýr Elliða.
Vængur storma við það losnar,
vog frá grunni ýmist slær,
eða hátt frá hafi flosnar,
hamast bæði lopt og sær;
koma fram úr dimmu djúpi
draugar hafs og býsnin öll
undan kvikum hrannar hjúpi,
holskeflanna drifin mjöll.
«Sælla var að sigla
of silfurvoga,
er bjart skein tungl,
til Baldurshaga;
hlýjara' oss þótti
við hjarta snótar,
er við brimhvít brjóst
brúðar hvíldumst».

---

Stíga Sólundir
úr sollnu djúpi;
þar er lygn lögur;
leitum þangað!

Sjóvíkingur síðla hræðist,
siglu vanur traustri eik,
heldur stjórnvöl, hugur glæðist
hans við grimman veðraleik;
skeið má herða skerjahestur,
skarpar öldu rista kinn;
beint í vestur, beint í vestur
brunar marargammurinn.
«Lystir mig lengur
við lög að þreyta;
veðri og víkingi
vel um semur;
skal-at Ingibjörg,
þótt el um þjóti,
stormgamm vorn sjá
með stýfða vængi».

---

Vex nú vogur,
veður ærist,
hrikta hlýr,
hvín í böndum.
En þótt Rán í reginmóði
riðlist kring um valið fley,
traustur drekinn goða góði
glúpna fyrir vill þó ei;
stjörnuhrap um haust sem falli,
hleypur hann í snörpum byl,
eins og hindin hátt í fjalli

hoppar yfir björg og gil.
«Kyssti' eg unga
Ingibjörgu
Beladóttur
í Baldurshaga;
kyssir nú Rán
köldum munni
saltdrifinn kamp
á sækonungi».

---

En fönn fýkur
með felli-byljum,
smellur hart
hagl við þiljur.
Dimmir þá á drekaþiljum,
dagur hvarf í svartri nótt,
sem í dauðans döprum hyljum,
dáin þar sem hvílir drótt;
galdraveðrið geysi-breka
gjósa lætur himni mót;
kolgrátt hamast kring um dreka
kynjum magnað sjávarrót.
«Býr oss nú bólstra
Blóðughadda;
sváslegri, svanni!
kveð eg sæng þína.
Leggjumst djarflega,
drengir! á árar

traustsElliða,
þess er Æsir gjörðu».

———

Fellur inn stórsjár
á stjórnborða,
en í skyndingi
skolast þiljur.
Friðþjófr dró þá hratt af hendi
hringinn Bela-konungs-naut,
dvergasmíði; darrabendir
dýran grip í sundur braut;
merkur þrjár hann mundi standa,
megin-fagur til að sjá;
skipti brotum skeflir randa
skatna milli þiljum á.
«Fagurt gull
skyldi friðill eiga;
trúi-at tómhentur
tryggðum Ránar;
köld er hún að kyssa,
kenjótt að hálsa;
festum glymbrúði
gulli rauðu».

———

Ógnar stormur
enn af nýju,
rifnar voð,
en rá brestur.

Og í djúpu öldu kafi
áföll fá þeir stór og hætt,
austurinn vex, því öllu hafi
engum móti verður stætt;
Friðþjóf sjálfum fannst sem stæði
feigð og dauði innan borðs,
þó lét hærra' enn Hrannar æði
hreimur kappans þróttar-orðs.
«Björn! tak stýri
báðum höndum,
er-at veður slíkt
frá Valhöllu;
galdur er á seiði;
svartur veldur
gramur Helgi.
Gæta vil eg leiðar».

———

Vatt sér víkingur
sem visla klifi
hátt á hún,
og sem haukr þar sat.
Fyrir stefni stórhval sér hann,
stórvaxin sem flyti ey,
hafflögð tvö um hrygg hans þveran
hamrömm sátu' á græðismey:
Heiður sveipuð hélustakki
hrammi sló sem hvítabjörn,
vængi skók með hrævahlakki

Hamglöm eins og ferleg örn.
«Sýn nú, Elliði!
að sé þér laginn
eikarsvíri
orkurammur;
sértu goðborinn,
sundur brjóttu
eirbarði þínu
illkvikindi».

——

Hlýðir eiganda
Elliði,
stökkur á brjóst
á stórhveli.
Gýs upp óðar blóðgur bogi
benjum hvals úr himni mót;
skrímslið féll með feigu sogi
fimbuldjúpt í sjávarrót;
í því bili fleinar fljúga
Friðþjófs beint úr hetjumund;
örninn gegn nam annar smjúga,
annar björninn sömu stund.
«Heill þér, Elliði!
hygg eg síðla
blóthval Helga
úr blóði rísa;
Heiði' og Hamglöm
né hræðast þurfum;

beiskt er að bíta
í bláar eggjar».

---

Lygnist lögur,
lægist stormur,
ber andvari
til eyjar nærri.
Kom nú sól með brosið blíða,
buðlung lík í glæstum sal;
aptur gleðin fyllir fríða
fley og sæ, og björg og dal;
aptangeislar gullnir mála
græna hlíð og kyrran lund;
kenndu runnar sterkir stála
strendurnar við Effjusund.
«Bænir drósar,
bjartar smámeyjar,
beygt hafa kné
fyrir böndum heiðnum;
hreinn, tárfagur
hrært hefur Æsi
svanni svanbrjósta;
samir að þakka».

---

En Elliði
afarmóður
af hvalriði
hægt fram sígur.

Þó er fremur fjörvi þrotin
Friðþjófs sveit á bárumar;
styður sig við sverðið lotinn
sérhver reynir branda snar;
fjóra þeirra ber á baki
Björn af skeið á fjöruslóð;
Friðþjófur átta frá eg taki,
fölva hressir elds við glóð.
«Blygðist eigi,
þótt bleikir séuð;
hörð eru fangbrögð
Hrannar systra.
Gleðji' oss nú gullhorn
góðum miði.
Skal eg enn minnast
Ingibjargar».

---

## XI.

## Friðþjófur heimsækir Angantý jarl.

—

Nú segir frá því saga,
er situr Angantýr,
og drakk um langa daga
með dróttum jarlinn skýr.
Eitt haust, sem hann var vanur,
að hrannar leit hann teig,
er sólar gullinn svanur
í svalar unnir hneig.

Um gamla Hallvarð getur,
hann gætti dyra jarls,
við öl sem útisetur
var enginn maki karls,
því hver sem horn út rétti,
svo hýrt hann kampinn strauk,
og sagði' ei orð, en setti
það sér á munn og lauk.

Nú horni halur þeytti

í höllu inn og kvað:
«Eg sè hvar sveinar þreyttir
af sundi koma að;
úr stormi stafnahéra
eg stýra sé á land;
tvær hraustar hetjur bera
ið hrakta lið á sand».

Og hvörmum hilmir rennir
að hvala svölum beð.
«Eg Elliða», kvað hann, «kenni
og kappann Friðþjóf með;
eg þykist þekkja drenginn,
hans Þorsteins frækna mög,
þann svip á annar enginn,
sem yfir siglir lög».

En óðar upp frá borði
þá Atli rammi spratt;
hann fýstist mjög að morði
og miði frá sér hratt,
og svörum svo hann hreifir:
«Eg sjá vil Þorsteins nið,
hvort eggjar allar deyfir
og aldrei þiggur grið».

Með blóðgum berserk fylgdu
hans bekkjunautar tólf;

sem tröll sig allir ýgldu
og eggja hristu kólf;
þeir æddu' að eyjabandi,
þar ítri drekinn stóð,
og Friðþjófur sat á sandi
og sveina hressti móð.

«Í hendi ráð þitt hef eg»,
við hetju Atli kvað,
«nú fús þér færi gef eg
að flýja' eða reyna nað;
en griða' ef girnist beiða
(það gjöri' eg fám í vil),
með vinsemd vil eg leiða
þig vísa hallar til».

«Þótt frekt oss þreytti ferðin»,
svo Friðþjófur kvað og brá,
«hver betur bíta sverðin
þér banna' eg ei að sjá«.
Þá glumdi' í grundar veggjum,
er grenjuðu hjaltaljón;
úr Angurvaðils eggjum
gaus eldur vítt um frón.

Nú höggvast halir trylldir,
en hljóðir störðu menn,
og beggja skýfðust skildir

í Sköglar-drífu senn,
unz Angurvaðill ægur
úr Atla rammri hönd
um hjaltið, hjörinn frægur,
nam hluta benjavönd.

«Á verjulausum vinna,
eg vil ei», hetjan kvað,
«en fyrst mig vildir finna,
eg fang þér býð í stað».
Sem steypist brim á strendur,
um stáli dúðuð bök
þeir spenntu hraustar hendur
með hamrömm glímutök.

Sem ólmir birnir berjast
um breiðan krapasnjá,
sem ernir örnum verjast
við öldur hafs að sjá,
sem björgin bresta mundu
og brotna skógartré,
þeir glímdu grimmri lundu
og grundina óðu' í kné.

Um sjónir svitinn fellur,
en sinar þenjast út,
og bringan breiða svellur,
og bolur knýst í hnút.

Með blöskran allir bíða,
sem bundnir fast við strönd,
það fang er víðfrægt víða
um voldug Norðurlönd.

Friðþjófur loks þó felldi
sinn fjanda' á lága storð.
«Eg bana brátt þig seldi»,
þau bistur kvað hann orð,
«ef sverð eg hefði í hendi,
þú hrikalegi þegn,
eg reiðum tyrfing renndi
þitt ramma hjarta gegn».

Þeim svarar Atli orðum:
«Þinn unda sæktu kníf;
í sömu sit eg skorðum
og sel ei dýrt mitt líf;
til Oðins allir ganga
þá einu' og sömu brú;
í dag eg dauðann fanga,
um daga fáa — þú».

Inn frækni beið ei boða,
en benja sótti ljá,
að víking reiddi voða,
en við hinn hvergi brá;
þá stilltist geðið stríða,

hann stöðvar hjaltavönd,
með hetjubrjóstið blíða,
og berserk réttir hönd.

En Hallvarður frá höllu
með hvítum benti staf.
«Þið glatið gamni öllu»,
svo glumdi halsins skraf.
«Und silfurhornum svásum
nú svigna borð hvert fer,
og kulda slær að krásum,
en kverkar þorna' á mér».

Nú saman sáttir ýtar
um salar ganga dyr;
þar fengu firðar líta,
er Friðþjófur sá ei fyr —
ei viðarveggi auða,
en veglegt brosti tjald
með rósahringi rauða
og ritaðan gulli fald.

Ei gamlar aringlóðir
á gólfi sá hann þar,
en marmara hvelfdar hlóðir
þar hulinn eldur var;
ei svartan reyk þar sá hann
né sóti roðinn ás,

en kristalls glugga gljáan,
og greipta hurð með lás.

Ei furublys þar brakar
er bjórinn sigrar drótt,
því steyptir silfurstjakar
þar styttu dimma nótt,
og steiktur heill við horfði
þar hjörtur kátri sjót
með búin horn á borði,
og beygði gylltan fót.

En bak við sveina' í salnum
stóð silki- fögur -Lofn,
sem brosi blóm í dalnum
á bak við hríslustofn:
það liðast lokkar svartir,
það leiptrar meyjar brá,
það blika vangar bjartir,
það brosa varir smá.

Í öndveg sínum situr
á silfurstóli jarl,
um hjálm hans logar litur,
sem lýsi sól á fjall,
en yfir glæstum gerðum
ein guðvefs skikkja féll

af stillis sterkum herðum
með stjörnusaumað pell.

Nú gramur gekk frá borði,
er gest hann koma sér,
og heilsar hlýju orði:
«Sit heill ið næsta mér,
því horn eg tíðum tæmdi
með traustum Víkings nið;
hans sonur sóma-ræmdi
nú sitji' að vinar hlið».

Þá skenkti' hann vínið valda
(það var frá Sikiley
og sauð sem sjóðheit alda
og svall sem græðismey):
«Þér vist sé vís hér inni,
míns vinar sonur kær!
og þjóðfrægs Þorsteins minni
sé þessi skálin tær».

Þá gall við hörpuhreimur
um hrausta Skotaþjóð;
sem þungur þrumueimur
þau þóttu' in velsku ljóð;
þá gekk fram greppur norskur
að gömlum sið, og kvað

um Þorstein, halur horskur,
svo hirðmenn dáðust að.

Við Friðþjóf fylkir hjalar
um frændur á Noregs-grund;
og hinn við hilmi talar
með harðla spakri lund,
svo horsklega' orðum hagar,
svo hvellt hann skýrði frá,
sem mundi minnug Saga
við Mímis helga lá.

Frá grimmum galdrabrögðum
hann greina líka hlaut,
frá Helga heljar-flögðum,
unz hrygg í tröllum braut;
þá glaðnar geðið rakka,
þá glottir Angantýr,
og þýðir drengir þakka
ið þulda æfintýr.

Þá minntist halur mætur
á mæra Ingibjörg,
er gullnum tárum grætur
við glæstan Baldurshörg;
þá viknar þernan þýða
og þrá í brjósti rís;

svo tryggvan biðil bíða
sér brúður sérhver kýs.

Og erindi sitt um síðir
hann segja jarli vann,
sem hetju orð á hlýðir,
unz hljóð hann fær í rann:
«Þann skatt eg ekki skynja,
vér skipum frjálsan bekk,
eg Bela boðum synja,
en Bela skál eg drekk.

Eg þekki' ei konungs kunda,
og krefji þeir skatts af mér,
eg fyrst við þá til funda
mun fara beint með her,
þótt firnist fjör og þróttur. —
En faðir þinn var mér kær».
Þá benti' hann dýrri dóttur,
er döglings sat þar nær.

Og siðug silkinanna
úr sæti glæstu spratt;
svo mjótt var mitti svanna
og meyjarbrjóst svo glatt;
en fögur lilja Lofnar
sér leyndi kinnum á,

sem fjöllit fluga' er sofnar
und faldi rósar smá.

Og drósin gekk til dyngju
og dýran grip kom með —
svo svása silkipyngju,
að sveitin undrast réð;
þar blikar láð og lögur
og lopt og skógargrein:
í kring var gullinn kögur
og kveiktur lás í stein.

Það hnossið hringaslóðin
að hilmi rétti sling,
en fylkir fyllti sjóðinn
með fögrum ormabyng:
«Það silfur vil eg selja»,
kvað sjóli, «gestur! þér,
ef viltu, vinur! dvelja
í vetur með oss hér.

«Þú víst átt hugfullt hjarta,
en hafs er torvelt svið,
og Heiðr og Hamglöm svarta
má henda rakni við.
Þótt Elliði hvalinn illa
í ægis keyrði hyl,

það skarð til fulls að fylla
af flögðum nóg er til».

Við glaum og fagurt gaman
í glæstri jöfurs höll
svo drukku drengir saman,
unz dagur lýsti fjöll.
Að lokum minni mildings
af megni drukkið var:
til vors í höllu hildings
sig hressti kappinn snar.

## XII.

## Heimkoma Friðþjófs.

—

En vorið glaðnar við gullin ský
og gróandann vekur sólin hlý,
þá þakkar Friðþjófur fylki greiða,
og fleyi hrindir á æginn breiða,
og Elliði ryður um Unnar skaut
með öflugum kili silfurbraut,
því sunnanvindar með vorsins tungu
í voðunum kátt sem þrestir sungu,
en dætur Ránar með blæjur blá
við borðin dansandi skutinn slá.
Hve glatt er að stefna frá storðu fjærri
að ströndinni fósturlandsins kærri,
þar reykur stígur og brosir bær
og bernskunnar rósin fagra grær,
og lindir bláar á leiksvið minna
og líta þar kumblin feðra sinna;
en yngismærin við unnarstein
á æginn mænir og þráir svein.

Í dagana sex hann sigla náði,

inn sjöunda dimma rönd úr gráði
við sjónar-hringinn loks hækka sér
með hlíðar og fell og eyjar og sker,
og fósturjörðin í feldi grænum
hann fagnandi sér hvar rís úr sænum,
hann heyrir fossanna hreysti-spil
og hnúka þekkir og dal og gil;
hann heilsar nesinu, heilsar sundi,
og heldur beint inn að goðalundi,
þar sumarið áður um svása nótt
með silkingsdóttur hann undi rótt.
«Hvort grunar nú ekkert svannann svinna
og sér hún ei neitt til ferða minna?
Úr hofinu' er máske hringaþöll
og haldin nauðug í kónga höll,
og grætur við dapra hörpuhreima». —
Frá hofsins mænir um bláa geima
sér valur ins frækna verpur þá
og vindur sér niður hönd hans á,
hann hristir sig allan og hreifir klær
og hvössu vængjunum loptið slær,
og hvergi eirir haukurinn slingur,
að hlustum Friðþjófi nefi stingur,
sem vildi' hann hvísla valin orð
í vinarins eyra frá baugaskorð. —
Eða' er það um hennar hinnsta vilja? —
En huldar rúnir má enginn skilja.

Með nesinu fram nú fleyið svífur
og fljúgandi skriði hrannir klýfur,
sem móti því hlæi heimaslóð,
en hetjan þögul í lypting stóð.
Að enni styður hann hvelfdri höndu
og hvessir sjónir á fósturströndu,
en þó að hann herði' á hvarmagler,
hann hvergi bæinn sinn Framnes sér.
Hvað blasir við þar á brunaeiði,
sem beinagrind yfir hrundu leiði?
Öll sviðin og brennd hann sér sín lönd
og svæla rýkur um auða strönd.
Hann stökkur í bræði' á storðu kennda
og starir hljóður á garðinn brennda,
þar faðir hans bjó og barn hann hló. —
Í bili því sama til hans fló
hans vasklegi, loðni veiðihundur,
er veturliða opt á grundu
fyrir Friðþjóf títt hafði frækinn mætt;
hann flaðraði nú með geðið kætt.
Og fákur hans snar með fætur rakka
með faxið gullið og stæltan makka,
er Friðþjóf jafnan á baki bar,
mót bragningi dýrstum kemur þar;
á fylki mænir hann, frísar, biður
og flipa stingur í lófa' hans niður,
en hundi' og fáki' ei hefir neitt
nú halurinn snauður, er fái veitt.

Án skjóls og hælis á heimagrundu
hann hljóður stendur með sorg í lundu,
er ganga sér hann að garði inn
inn gamla, spaklynda fóstra sinn.

«Ei undrun fær mér sú auðnan kalda,
ef örninn strýkur, má hreiðrið gjalda;
að friða sín kann sá fylkir lönd,
og fullvel að efna heitin vönd,
að blóta goðin og bragna fjóna
og brenna óðulin sinna þjóna;
og gremju mér vekur grimmd hans örg;
en grein þú mér, hvar er Ingibjörg?»
«Þau boð eg þér flyt», hans fóstri sagði,
«er fölvan þig gjöra víst í bragði;
með lið kom Hringur og hótin dimm
og hafði mót einum skildi fimm.
Í Dísardölum varð darrafundur,
svo dunuðu björg við gný og undur;
þá orrustan tókst hann Hálfdan hló,
en hjörnum með drengskap beitti þó;
eg skildinum hélt fyrir mildings megi,
og mikið hann nam á þeim eina degi.
En leikurinn þó svo lykta vann,
að lofðungur Helgi' á flótta rann
og flýtti sér brott frá fundi þeim,
og Framnes brenndi á leiðinni heim.
En Hringur bræðrunum svör þau sendi,

að selja sér Ingibjörgu' af hendi
í gjöld fyrir hróp og hrakleg svör,
eða honum selja sín lönd og fjör.
Af ótta hlýddu þeir auðmildingi
og Ingibjörgu þeir festu Hringi».

«Ó fláráða mey!» var Friðþjófs svar,
«in fyrsta hugsun hans Loka var
hún Lygi, flagðið, í meyjarmynd,
til mannheims hann sendi þá flærðarkind;
með augunum blám og tára táli
hún tælir, freistar og veldur brjáli;
úr vindi er hennar vesala dyggð,
úr vorísum hennar svikul tryggð,
í brjóstinu hvískrar brigðin fláa,
og brosandi lýgur vörin smáa.
Og þó er nú helzt í huga mér,
hve hjartafólgin hún var og er.
Frá fyrstu stundu, sem má eg muna,
með mey þeirri nam eg lífi una;
í hverjum leik og í hverri raun
var hún mín ljúfustu sigurlaun.
Sem vaxi saman tveir viðarstofnar,
og valdi svo Þór að annar klofnar,
þá deyja báðir ið sama sinn,
sé sællegur annar, þá dafnar hinn:
svo undum við sætt við sorg og gaman,
við svása snót er eg vaxinn saman.

En nú er eg einn. Þú vegleg Vör,
um víðan heiminn sem þreytir för,
og eiða skrifar á skjöldinn ríka —
ó skrifaðu' ei lengur heimsku slíka,
svo lygi rönd hver ei leiptri full,
það lýtir um of ið trygga gull. —
Er, Nanna, þín saga sönn? Eg kenni
ei sannleikans mark á nokkru enni;
hvert hjarta tel eg nú tryggðarlaust,
fyrst tældi mig Ingibjargar raust,
eins mild sem blærinn í blómsturengjum
og Braga raddir frá gullinstrengjum.
Því skyldi eg hlýða' á hörpuljóð,
og harma og trega brigðul fljóð?
Með storminum vil eg steðja' um græði
og stilla með blóði hrannar æði,
og hvar sem menn veita vörgum bráð
eg verð á ferð yfir sæ og láð;
og vildi þá til að krýndan kynni
eg konungmann hitta' á götu minni
og sjúkan af ástum yngissvein,
sem ung hefur tældan silkirein —
svo heimskan að kvenna tryggðum treysti —
frá tryggð og fjörvi eg hann óðara leysti,
frá svívirðing, gremju' og svikaþrá,
og sorginni, er eg nú kenni á».

«Svo heitt er blóðið í ungum æðum»,

inn aldni svarar þeim harmaræðum,
«unz ólguna kælir hún elli grá,
en Ingibjörg þó ei lasta má.
Og ei má fóstra mín góð þess gjalda,
er grimmlegar skapanornir valda.
Sem Viðar hún drúpti hæg og hljóð,
en hjartað kvaldist af sárum móð;
með hulinni tryggð hún trega mundi,
sem turtildúfan í suðurlundi.
Mér einum hún sagði þann hulinsharm,
sem harðlega nísti' hennar meyjarbarm;
sem sjávarfugl, er með brotna bringu
til botnsins jafnan sér niður stingur,
svo dagurinn eigi sár hans sjái,
og situr þar einn í köldu dái,
eins byrgði hún með sér böl og neyð
og birti mér einum, hvað hún leið».
«Sem blótfórn er eg», svo brúður hjalar,
«ó, bindið mér vetrarliljur svalar
um höfuð, og hvíta Baldursbrá,
fyrir Bela ríki eg deyja á;
svo dey eg þá burt frá bölvi nauða,
nei, Baldur hann heimtar seinan dauða
með sollinni und og æðarslátt,
þá einustu vill hann þiggja sátt.
En fóstri, birt þú ei mæðu mína,
því meðaumkan skal mér enginn sýna,

þótt spenni mig helnauð hörð og mörg; —
en heilsa Friðþjóf frá Ingibjörg!»

«Á brúðkaupsdeginum bjartrar meyju —
þann brúðkaupsdag eg vildi eigi
á rúnastaf hafa ritað minn! —
með ríkustum svanna fylgdin svinn
til hofsins stefndi, af hraustum sveinum
og hvítum, skínandi silkireinum.
Í broddi greppur einn gígju bar,
en gylfadóttir á svörtum mar
svo fölleit situr sem svipur líði
og svörtum skýjum um loptið ríði.
Úr söðlinum hóf eg hringabil
og hana leiddi eg blótstalls til;
þar vann sinn lögeið svanninn svási
með snjallri röddu þeim hvíta Ási,
og bljúg nam hún senda bænarorð,
en beisklega grét hver faldaskorð.
Inn bjarta hring þinn á brúðarhendi
í bili því sama Helgi kenndi,
og bauginn þreif hann og Baldri fékk,
en beint mér það svo til hjarta gekk,
að fram eg ruddist og brandi brá,
og bauð ei fé fyrir Helga þá;
en hún mig stillir og hógvær tér:
«Svo hart eg að vísu leikin er,
en lífs er ei enn þá endað spor;

Alfaðir dæmir í milli vor!»

«Alfaðir dæmir», þá drengur svarar,
«en dóm minn eg skal ei heldur spara».
Að miðju sumri er Baldursblót,
og blótgoðinn er við heiðið mót;
og brennivarg þann, er seldi systur,
þar sjá skal eg aptur hefndarþyrstur».

---

## XIII.

## Baldursbál.

—

Blóðgan mána bar við tind,
birtan varð að skímu;
var sem dreymdi dröfn og strind
dags í milli' og grímu.

Í hofi kynt var Baldursbál,
bráðum glóðir hverfa;
þá er bjartan bróður mál
blindum Heði' að erfa.

Híma blótmenn hofs und vegg,
hnissa að eldibröndum;
á bringu tók þeim brimhvítt skegg,
blótkníf léku höndum.

Helgi krýndur hjá þeim stóð,
heiðnu blóti sinnir,
vex þá brak og vígahljóð
vígðu goðs í inni.

«Lokaðu hurðu hofsins, Björn!
hart þótt að þeim kreppi;
höggva skaltu' í herðar hvörn,
heldr en hjá oss sleppi».

Bliknaði kóngur, kenndi snar
kappans raustu snjalla;
heyrði' hann Friðþjóf frækna þar
sem feigðar stormbyl gjalla.

«Tak hér skattinn, þess er þú
þóttist smáður bíða;
bregð svo hjör og bústu nú
í Baldurshaga' að stríða.

Berskjaldaður, fylkir! fram
flýt þér við oss leika;
fyrsta höggið hæfir gram,
hitt mun trauðla skeika.

Hurð er lokuð sem þú sérð,
svelt hef eg inni skolla;
mundu þína Framnes-ferð
og fylkisdóttur holla!»

Sjóð frá belti síðan brá
sverða rammur bendir,

og með krapti krúnu á
konungs miðja sendir.

Úr fylkis munni fossar blóð,
fyrir sortnar auga,
hneig í óvit hofs á slóð
hirðir véstallsbauga.

«Ef geig þér vinnur gullið þitt,
geit þíns ríkis mesta!
tími' eg sízt, að sverðið mitt
sundri bleyðu versta.

Ragir seiðmenn! reiðið ei
ramma fórnar-knífa,
skuli' eg yður, galdra grey!
grimmri feigð við hlífa.

Reiðst ei, Baldur blíði! mér,
bið mín kyrr og þolinn;
hringrinn góði á hendi þér
er, hérna' að segja, stolinn!»

Þreif hann til, en höndin hring
hélt í mót sem fastast,
loks hún réttist, losnar þing;
á logann Baldur kastast.

Rauðar tungur hvæsa hátt,
hyrjar fossar elfur;
Björn stóð fölur fram við gátt,
Friðþjófr sjálfur skelfur.

«Út skal drótt, en opnist gátt,
enginn má sér hlífa,
hofið brennur! hingað brátt
hafið allt má svífa!»

Nú var keðja knýtt frá strönd
kappa tengdum höndum;
seldi báru hendi hönd,
hrikti' í sviðnum bröndum.

Sem hríðarvættur hetjan stóð
heljar-báls í kverkum,
hellti vatni' í heita glóð,
með herjum skipti verkum.

Æðisgengnum ógnarbrand
enginn stenzt við skjöldur;
drýpur gull um gljúpan sand,
glóa silfuröldur.

Dreyrgur hyrjar hani hvopt
í heljarbrimi glennir,

hristir kamb í háa lopt,
himininn glóð um spennir.

Morgunblær um breiða grund
bálið drjúgum æsir;
sig í þurran læsir lund
loginn þá og hvæsir.

Stökkur bálið eik af eik,
eins og stórflóð renna;
heljar líkist hrikaleik
hofsins ægi-brenna.

Björkum hyrjar skellir skafl,
snarkar óttalega, —
hvað skal mennskra manna afl,
er Múspellssynir vega?

Eldhaf brýzt um Baldurslund,
báls ei stöðvast vogar,
rennur sól, en sær og grund
sýnast tómir logar.

Allt er hulið eldi frón,
aska hof og lundur;
Friðþjófr horfði á hroðasjón
hryggr um morgunstundu.

## XIV.

## Friðþjófur flýr úr landi.

—

Á þiljum stóð
með þungum móð
og sárar sorgir
um sinnisborgir
Friðþjófur þá,
og fölvan sá
reyk hofsbranda
rjúka' of sanda.

«Þú, reykur! far
af foldu snar
upp til Valhallar
og ofan kalla
ins hvíta hefnd,
er hörð mun efnd;
fljúg hátt með kalli,
svo hvelfing gjalli
um Baldursbál
og brennumál,

um viðargoðið
af glóðum hroðið,
óðar en flatt
á eldinn datt;
um hofslund fríðan,
heilagan síðan
sverð voru gjörð —
hann er sviðin jörð;
fékk ei þann heiður
að fúna meiður.
Eg frétt þér fel
og farðu vel
og Baldurs eyra
lát hýsnir heyra;
við þokugoð
á þokuboð.

Leyfður mun ljóði
lofðung inn góði,
sem ei hratt mér
frá einum sér,
en rak úr ríki;
ráð er eg víki
til bárugeims,
ins bláa heims.
Til setu' ei boðið
oss, svása goðið,
Elliði! er;

um aldinn ver
nú legðu leiðir,
þótt löður freyði,
á yztan heims jaðar,
og eigi skaðar,
þótt blæði blóð,
en berjist þjóð.
Nú hús mitt ertu
og heimili vertu,
alls Baldursfrændi
mig býli rændi;
frá Noregs-fold
og fósturmold
á braut mig ber þú,
og bót mín ver þú.
Þú, svarta fley!
skalt svása mey
mér bæta líka,
því brást in ríka.

Þú, víða haf!
þú veizt ei af
jöfra ofríki
né öfundsýki,
þinn sjóli' er sá,
er sjónum á
ekki skelfir,
þótt Unnur hvelfi

við harðan þjóst
in hvítu brjóst.
Þín votu strindi
eru víkings yndi;
hans plógland er
inn aldni ver,
en dreyri' er döggin,
er dynja höggin,
en örvum blá
er sáð í sjá,
en af því sæði
vex sigurkvæði
og gnægtir fjár
og Freyju tár.
Bregðst mér ei fláa
báran bláa!
Haugurinn grænn,
svo hýr og vænn,
lygnt við löður
liggur míns föður,
en minn skal blár,
þars bólgnar sjár,
haugurinn valdi
með hvikum faldi
sveima um sæ,
og sollin hræ
draga niður
í drafnar iður.

Hörð var oss æfi
hlutuð á sævi;
við unnarstein
vil eg bera bein».

Svo kvað inn hryggvi,
en knörinn dyggvi
nauðugur svam
á sæinn fram
hjá skerjagörðum,
er skýla fjörðum
Noregs æ
fyrir óðum sæ.
Í tröllsham frekum
á tíu drekum
þá Helgi svam
á sundin fram.
Menn heyrast kalla:
«Helgi vill falla;
hann fer með her,
því feigur er.
Fýsir hann þrá
sína frændur sjá;
inn illi hari
til Óðins fari!»

Kom þá voði'
að konungs gnoð,

því sama bil
í sævarhyl
nam sökkva drekinn
á sundi rekinn;
við brattan sand
tók buðlungur land.
Björn þá mælti:
«Þig, buðlung! vælti
mitt ráðið traust,
því ræsis flaust
í nótt eg meiddi
og móðgan sneyddi
þig hefndavon,
þú, herjans son!
en fleyjum völdum
í faðmi köldum
mun halda Hlér,
en hitt fór ver,
að ei hélt drottni
Unnur á botni».

En Helgi stóð
með heiptarmóð
bjúgur á söndum,
og báðum höndum
dró ör á streng
við stein í keng,
með öllum mætti,

en afls ei gætti,
unz strengur brast,
en steinn við gnast.

Það kappinn sá
og kesju brá
hátt og stælti,
til hilmis mælti:
«Eg helörn ber
í hendi mér;
ef braut hann flygi,
þú bleikur hnigir
í Niflheims kverk
fyrir níðings verk;
en hræðst ei, eg rjóði,
Helgi! blóði
brand minn bjarta
þíns blauða hjarta,
því níðstöng þá,
sem þitt nafn er á,
eg ei skal hrella
og aldrei fella.
Sæmd fyrir smán
þú seldir Rán,
líkt sem áður
á landi smáður.
Ryð boga braut
fyrir buðlung. Þraut

aðra skal reyna
og engan leyna,
hvort fræknara mér
ei ferst en þér».

Til ára þrífur
og öldur klýfur
með sívölum, hám
tveim siglutrjám
úr Guðbrandsdal,
en garpaval
svo miklu orkar,
að undra-forkar
sem bandið brennt
þá brustu' í þrent.

Rann þá sól
á ragnastól,
og svalur andi
sveif frá landi
fjöllum frá
yfir fornan sjá,
Ránardætur
hann rak á fætur.
Of öldu toppa
Elliði hoppar
fríður af stað;
Friðþjófur kvað:

---

Þú, Friggjar enni,
mín fjallbyggð há,
til harms eg kenni,
eg hrekst þér frá;
þig, hreysti-móðir,
mitt hrós eg tel,
með hetju þjóðir,
far vel, far vel!

Þú, Óðins auga
við uppheims stól,
er sund ei lauga,
ó, sumarsól,
þú, stjörnuheimur
með heilagt hvel,
þú, heiði geimur,
far vel, far vel!

Þér, tignu björgin,
svo traust og stór,
þar margan hörginn
á máttkur Þór;
þú, skógar-lögur,
og skyggndu hvel,
og sker og ögur,
far vel, far vel!

Og hýru vangar

við hafsins laug,
þar lindin angar
á lofðungs haug, —
hvar sæmd ei gleymist,
þó svört sé Hel,
hjá Sögu geymist,
far vel, far vel!

Í ljósum lundi
við ljúfan frið
eg barn mér undi
við bekkjar nið;
ó, björtu hlynir
við báru hvel,
ó, barndóms vinir,
far vel, far vel!

Minn bær er tekinn,
en brúður misst,
á braut eg rekinn
er lands úr vist;
nú Ægi stríða
eg auðnu fel;
þú, æfi blíða,
far vel, far vel!



## XV.

## Víkingabálkur.

—

Nú hann sveif yfir sæ líkur sviplegum val,
þeim er sækir með hamförum bráð,
en með Víkingabálk gaf hann vegöndum lög;
sá, er vill, má hér líta þau skráð.

